# ÁGRIP

AF

# ÍSLENSKRI MÁLFRÆÐI.

EPTIR

HALLDÓR BRIEM.





*ÖNNUR ÚTGÁFA ENDURBÆTT.*



REYKJAVÍK.
PRENTAÐ Í FÉLAGSPRENTSMIÐJUNNI.
1910.

# Inngangur.

---

**Orðflokkarnir. Beygingar. Málfræðin.**

Hvert **mál** samanstendur af orðum. Orðin skiptast í flokka, sem kallast **orðflokkar** eða ræðupartar. Þeir eru: 1. *Nafnorð.* 2. *Greinir.* 3. *Lýsingarorð.* 4. *Fornöfn.* 5. *Sagnir.* 6. *Atviksorð.* 7. *Forsetningar.* 8. *Samtengingar.* 9. *Upphrópanir.*

**Nafnorð** *(substantivum)* er það orð, sem er nafn á einhverju, svo sem manni, dýri, hlut, t. d. *maður*, *kona*, *hundur*, *köttur*, *hnífur*, *stafur*, *bók*.

**Greinir** *(articulus)* í íslensku er *hinn*, *hin*, *hið*, t. d. *hinn* góði maður, *hin* góða kona, *hið* góða barn. Greinirinn er opt settur aptan við nafnorð, og er þá *inn*, *in*, *ið*, t. d. maður-*inn*, bók-*in*, barn-*ið*. Þessi greinir er hafður, þegar talað er um einhvern ákveðinn mann eða hlut. Í íslensku er þannig að eins til ákveðinn greinir.

**Lýsingarorð** *(adjectivum)* er það orð, sem segir, hvernig eitthvað sje, nefnil. lýsir því, t. d. *góður*,

*fljótur*, *beittur*, *fróðlegur*, svo sem *góður* maður, *fljótur* hestur, *beittur* hnífur, *fróðleg* bók.

**Fornafn** (*pronomen*) er orð, sem haft er í staðinn fyrir eitthvert annað orð, t. d. í staðinn fyrir eitthvert nafnorð. Orðið *jeg* er þannig haft í stað nafn þess, sem talar, orðið *þú* í stað nafn þess, sem talað er við, og orðið *hann* í stað nafns þess, sem talað er um. Orðin *jeg*, *þú*, *hann* eru því fornöfn, t. d. Drengurinn kann að lesa, en *hann* (ɔ: drengurinn) kann ekki að skrifa. Kindin jarmar, en *hún* getur ekki talað. Borðið er ekki stórt, en *það* er sterkt.

**Sögn** (*verbum*) er það orð, sem segir, að maður eða hlutur gjöri eitthvað eða sje í einhverju ástandi, svo sem að *lesa*, *skrifa*, *liggja*, *sofa*, t. d. maðurinn *les*, drengurinn *skrifar*, hundurinn *liggur*, barnið *sefur*.

Sagnir skiptast í tvo flokka, **áhrifssagnir** (*verba transitiva*, *verba activa*) og **áhrifslausar sagnir** (*verba intransitiva*, *verba neutra*). Áhrifssögn lýsir áhrifum eða athöfn, sem kemur fram við eitthvað annað, t. d. Hundurinn *beit* hestinn. Hesturinn *sló* hundinn. Drengurinn *las* bókina. Smiðurinn *heflaði* fjölina. Áhrifslaus sögn lýsir ástandi eða athöfn, sem ekki kemur fram við neitt annað, t. d. Barnið *sefur*. Hesturinn *hleypur*. Hundurinn *geltir*. Grasið *grær*.

**Atviksorð** (*adverbium*) er orð, sem haft er með lýsingarorðum, sögnum og öðrum atviksorðum til nákvæmari skýringar á því, sem sagt er frá, t. d. *mjög*, *lengi*, *opt*, *rösklega*, s. s. þetta er *mjög* góður hestur. Smiðurinn var *lengi* að smíða húsið. Pilt-

urinn hefur *opt* legið veikur. Ferðamaðurinn var *ákaflega lengi* á leiðinni. Þessi maður skrifar *sérlega vel.*

**Forsetning** *(præpositio)* er það orð, sem sett er framan við annað orð, helst nafnorð, til þess að sýna samband þess við eitthvert annað orð, t. d. *um*, *til*, *af*, s. s. Hann fór *um* alla sveitina. Skipið sigldi *til* Englands. Komumaður steig *af* hestbaki.

**Samtenging** *(conjunctio)* er það orð, sem tengir saman einstök orð eða setningar, t. d. *og*, *eða*, *en*. Faðir *og* móðir. Presturinn *og* hreppstjórinn komu í dag. Pétur kemur á morgun *eða* hinn daginn. Smiðurinn getur ekki smíðað kassann í dag, *en* hann gjörir það á morgun.

Ath. Atviksorð, forsetningar og samtengingar kallast opt einu nafni **smáorð** *(particula).*

**Upphrópun** *(interjectio)* er að eins hljóð eða kall, er gefur til kynna geðshræringu, en er ekki neinn hluti af samfelldu máli, t. d. æ! ó! svei! Í fornöld var upphrópun nefnd *meðalorpning*, er þýðir innskotsorð.

Þá er til sérstök tegund orða, sem kallast *töluorð* (numeralia). Þau eru höfð til að telja með, t. d. *einn*, *tveir*, *þrír*. Sum töluorð eru lýsingarorð, t. d. *einn*, *tveir*, *þrír*; *fyrsti*, *annar*, *þriðji;* sum eru nafnorð s. s. *þrenning*, *þriðjungur*, sum atviksorð, s. s. *tvisvar*, *þrisvar*.

Aths. 1. Nafnorð, greinir, lýsingarorð, sagnir og að nokkru leyti atviksorð **beygjast**, það er að segja,

þau breytast að myndinni til eptir sambandi sínu við önnur orð. Venjulega verður breytingin á þann hátt, að orðið fær mismunandi endingar, t. d. *bogi bogar, ríkur ríkir,* að *kalla,* jeg *kallaði, lengi lengur lengst,* en stundum verður breyting á aðalhluta, það er að segja **stofni** orðsins, t. d. *bók bækur, fagur fögur, langt lengra,* að *taka,* jeg *tók.* Forsetningar, samtengingar og upphrópanir breytast ekki, og eru því óbeygjanlegar.

Ath. 2. Eins og þegar er tekið fram, samanstendur hvert mál af orðum. Fræðigrein sú, er kennir oss að þekkja orðin, kallast *mállýsing* eða **málfræði** *(grammatík).* Í málfræðinni, það er að segja við það að læra að þekkja orðin, koma til greina þrjú atriði, í fyrsta lagi það, til hvaða flokks orðin heyra, hvernig þau beygjast, og hvernig þau myndast, í öðru lagi, hvernig þau standa af sjer í setningunum, og hvernig setningarnar standa af sjer hver við aðra, og í þriðja lagi, hvernig orðin hljóða og eru stafsett. Þessi þrjú atriði verða þannig: 1. flokkun, beyging og myndun orðanna, 2. skipun þeirra í setningunum og skipun setninganna sín á milli, 3. hljóð og stafsetning orðanna. Samkvæmt þessu skiptist málfræðin í þrjá kafla, sem kallast *orðmyndafræði* (etymologia) *orðskipunarfræði* (syntaxis) og *hljóðfræði* (fonetik).

Finn, undir hvaða orðflokka orðin heyra í eptirfarandi sögu.

Gömul kona ein[1]) keypti hrafnsunga og ól hann upp. Nábúakona hennar spurði hana, hversvegna[2])

---

1) Fornafn hjer, en ekki töluorð. 2) Atviksorð.

hún hefði fengið sjer svona ljótan fugl. „Jeg ætlaði að[1]) vita,“ svaraði hún, „hvort[2]) það er satt, sem jeg hef heyrt, að[3]) hrafn geti lifað í tvö hundruð ár.“

---

## 1. Nafnorð.

Nafnorð skiptast í tvo flokka, *samnöfn* (sameiginleg nöfn) og *eiginnöfn*. **Samnöfn** (*appellativa*) eru nöfn á lifandi verum eða hlutum, sem margt er til af, t. d. *maður*, *kona*; *fiskur*, *fugl*; *land*, *borg*. **Eiginnöfn** (*propria*) eru nöfn á einstaklingum, svo sem mannanöfn, bæjanöfn, hjeraðanöfn o. s. frv. t. d. *Haraldur*, *Sigrún*, *Reykjavík*, *Akureyri*, *Skagafjörður*, *Ísland*, *Jarpur* (hestsnafn), *Kolur* (hundsnafn). Samnöfn segja, hvað hlutirnir *eru*, eiginnöfn, hvað þeir *heita*.

Samnöfn skiptast aptur í þrjá flokka, *hlutanöfn*, *hugmyndanöfn* og *safnheiti*. **Hlutanöfn** (concreta) eru nöfn þeirra hluta, lifandi eða dauðra, sem sjást, t. d. *maður*, *hestur*, *borð*, *fjall*. **Hugmyndanöfn** (*abstracta*) eru nöfn á hugmyndum eða eiginlegleikum, t. d. *hugprýði*, *hreysti harka*, *mildi*. **Safnheiti** (*collectiva*) kallast þau orð, er innibinda fjölda, t. d. *korn*,

---

1) Forsetning. 2) Samtenging, tengir saman setningarnar „Jeg ætlaði að vita“ og „hvort það er satt.“ 3) Samtenging.

*hey*, ennfremur málma og efna nöfn, s. s. *silfur*, *gull*, *vatn*, *mold*.

Nafnorðin eru annaðhvort karlkyns, kvennkyns eða hvorugkyns. **Karlkyns** *(masculinum)* er það orð, sem *hann* er sagt um, t. d. *maður*, *hestur*, *hundur*, *stóll*. **Kvennkyns** *(femininum)* er það orð, sem *hún* er sagt um, t. d. *kona*, *ær*, *kýr*, *hæð*, og **hvorugkyns** (kynlaust, *neutrum*) er það orð, sem *það* er sagt um, t. d. *barn*, *folald*, *borð*, *fjall*.

Nafnorðin hafa tvær tölur, eintölu og fleirtölu. **Eintala** *(singularis)* er höfð, þegar talað er um eitthvað eitt, t. d. *piltur*, *stúlka*, **fleirtala** *(pluralis)*, þegar talað er um fleira, t. d. *piltar*, *stúlkur*. Ýms nafnorð eru að eins til í eintölu, t. d. *mjólk*, *tólg*, *æska*, *elli*; aptur eru önnur að eins til í fleirtölu, t. d. *dyr*, *buxur*, *börur*, *göng*.

Nafnorð í íslensku hafa fjórar beygingarmyndir, er kallast **föll** *(casus)*; þau eru: nefnifall, þolfall, þágufall og eignarfall.

**Nefnifall** *(nominativus)* er haft, þegar nafnorðið er nefnt blátt áfram, eða þegar það kemur fram sem gjörandi, t. d. *maður*, *piltur*, *kýr*, *kind*; *maðurinn* skrifar, *pilturinn* les, *kýrin* baular, *kindin* jarmar, *stóllinn* stendur við gluggann. Nefnifall má fljótlega finna, með því að hugsa sjer *hér er* fyrir framan nafnorðið, t. d. Hjer er *maður*, hjer er *kona*, hjer er *piltur*, hjer er *steinn*.

**Þolfall** *(accusativus)* er haft, þegar einhver verknaður kemur fram við nafnorðið, það er að

að segja, þegar einhver gjörir eitthvað við eitthvað annað, t. d. Húsbóndi minn seldi *hest.* Pjetur gaf *hníf.* Þolfall má finna með því að hugsa sjer *jeg sje* framan við nafnorðið, t. d. Jeg sje *mann,* jeg sje *hníf,* jeg sje *stól.*

**Þágufall** *(dativus)* er haft, þegar eitthvað er gjört fyrir einhvern, svo sem þegar einhverjum er gefið eitthvað, t. d. Pjetur gaf *Páli* hníf. Húsbóndi minn seldi *vini sínum* hest. Þágufall má finna með því að hugsa sér *hjá* framan við nafnorðið, t. d. hjá *manni,* hjá *hesti*; hann stóð lengi hjá *húsinu.*

**Eignarfall** *(genitivus)* er haft, þegar sagt er, að eitthvað sje eign einhvers, t. d. Þetta er hestur *húsbóndans.* Þetta er bókin *hans bróður míns.* Eignarfall má finna, með því að hugsa sjer *til* framan við nafnorðið, t. d. Jeg kom til *mannsins.* Árni gekk til *dyra.* Skipið sigldi til *Englands.*

Finn kynferði, föll og tölur í eptirfarandi sögu.

Refur einn kom einu sinni að stað einum, þar sem vínviður óx, og þar var ógrynni af fegurstu vínberjum. En þau hjengu svo hátt uppi, að hann gat ekki náð þeim. Refurinn vildi þó reyna, hvort hann gæti ekki náð í neitt af þeim; hann stökk því upp aptur og aptur, og neytti allra bragða til að ná þeim, en allt mistókst. „O jæja,“ segir þá refurinn, „það eru ekki annað en súrir grænjaxlar. Lofum þeim þá að hanga, þar sem þau eru.“ Þarmeð labbaði hann burt.

---

## 2. Beygingar nafnorða.

Nafnorðin hafa tvær beygingar, **sterka** og **veika**. Í sterku beygingunni endar eignarfall eintölu ávallt á samhljóðanda; sterk orð eru því t. d. *heimur*, *vinur*, *fugl*, *steinn*, *hæð*, *mýri*, *skip*, *stýri*; eignarf. eint. *heims*, *vinar*, *fugls*, *steins*, *hæðar*, *mýrar*, *skips*, *stýris*. Í veiku beygingunni enda öll föll eintölu á hljóðstaf; veik orð eru því t. d. *bogi*, *tunga*, *auga*; eignarfall eintölu: *boga*, *tungu* *auga*. Eins og dæmin sýna, innibindur hvor beygingin fyrir sig karlkyns, kvennkyns og hvorugkyns orð.

### A. Sterk beyging.

Sterka beygingin er talsvert fjölbreyttari en hin veika, enda miklu orðfleiri. Sterk nafnorð skiptast í þrjá flokka eptir því, hvernig þau enda í eignarf. eint. og nefnif. fleirt. Í fyrsta flokki eru bæði karlkyns, kvennkyns og hvorugkyns orð, en að eins karlkyns og kvennkyns orð í hinum tveimur. Eptir því hvernig nefnif. og þolf. fleirt. endar í karlkyns og kvennkyns orðum, má kalla flokkana a-flokk, i-flokk og r-flokk.

Fyrsti flokkur (a-flokkur).

Dæmi: *Heimur*, *nál*, *skip*, *stýri*.

Beyging án greinis og með greini.

Eintala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | heimur | heimurinn, | nál | nálin, |
| þolf. | heim | heiminn, | nál | nálina, |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| þáguf. | heimi | heiminum, | nál | nálinni, |
| eignarf. | heims | heimsins, | nálar | nálarinnar, |
| | | Fleirtala. | | |
| Nefnif. | heimar | heimarnir, | nálar | nálarnar, |
| þolf. | heima | heimana, | nálar | nálarnar, |
| þáguf. | heimum | heimunum, | nálum | nálunum, |
| eignarf. | heima | heimanna, | nála | nálanna. |
| | | Eintala. | | |
| Nf. og þf. | skip | skipið, | stýri | stýrið, |
| þáguf. | skipi | skipinu, | stýri | stýrinu, |
| eignarf. | skips | skipsins, | stýris | stýrisins. |
| | | Fleirtala. | | |
| Nf. og þf. | skip | skipin, | stýri | stýrin, |
| þáguf. | skipum | skipunum, | stýrum | stýrunum, |
| eignarf. | skipa | skipanna, | stýra | stýranna. |

Í fyrsta flokki endar eignarf. eint. í karlkyns og hvorugkyns orðum á **s**, í kvennkyns orðum á **ar** (stundum **jar**), t. d. heimur *heims*, steinn *steins*, karl *karls*, himinn *himins*, læknir *læknis*; skip *skips*, klæði *klæðis*, trje *trjes*; nál *nálar*, skel *skeljar*, mýri *mýrar*, gymbur *gymbrar*. Í *fje* er eignarf. eint. óreglulegt *fjár*.

Nefnif. fleirt. endar í karlkyns og kvennkyns orðum á **ar** (á *jar* í þeim kvennkynsorðum, sem í eignarf. eint. enda á **jar**), t. d. *heimar*, *steinar*, *karlar*, *himnar*, *læknar* (í nútíðarmáli opt *læknirar*), *nálar*, *skeljar*, *mýrar*, *gymbrar*. Í hvorugkyns orðum er nefnif. fleirt. eins og nefnif. eint., nema þegar **a**

er í stofninum, þá breytist **a** í **ö**, t. d. barn *börn*, fat *föt*. Í *altari* er nefnif. fleirt. óreglulegt *ölturu*.

Kvennkyns orð, er enda á **ar** (og **jar**) í nefnif. fleirt. heyra undir þennan flokk, af því þau hafa sömu endingu í nefnif. fleirt. sem karlkyns orð þessa flokks, en öll sterk hvorugkyns orð heyra undir þennan flokk, af því þau hafa sömu endingu sem karlkyns orð þessa flokks í eignarf. eint.

Nokkur orð þessa flokks dragast saman í nefnif. fleirt. þannig að **a** í endingunni **ar** fellur burt, svo fleirtöluendingin verður **r**; þannig *skór*, fleirt. *skór* (í fornmálinu *skúar*), ennfremur nokkur kvennkyns orð, t. d. *á*, *gjá*, *skrá*, *slá*, fleirt. *ár*, *gjár*, *skrár*, *slár*, (fyrir áar, gjáar, o. s. frv.).

### Annar flokkur (i-flokkur).

Dæmi: *Fundur*, *hæð*.

Eintala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | fundur | fundurinn, | hæð | hæðin, |
| þolf. | fund | fundinn, | hæð | hæðina, |
| þáguf. | fundi | fundinum, | hæð | hæðinni, |
| eignarf. | fundar | fundarins, | hæðar | hæðarinnar. |

Fleirtala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | fundir | fundirnir, | hæðir | hæðirnar, |
| þolf. | fundi | fundina, | hæðir | hæðirnar, |
| þáguf. | fundum | fundunum, | hæðum | hæðunum, |
| eignarf. | funda | fundanna, | hæða | hæðanna. |

Í öðrum flokki endar eignarf. eint. á **ar** (í karlkyns orðum stundum á **s** og **jar**), nefnif. fleirt. á **ir**,

t. d. vinur *vinar vinir*, staður *staðar staðir*, bekkur *bekks* og *bekkjar bekkir*, björn *bjarnar birnir*, bær *bæjar bæir*, völlur *vallar vellir*, fjörður *fjarðar firðir*; stund *stundar stundir*, höfn *hafnar hafnir*, fjöður *fjaðrar fjaðrir*.

Í sumum karlkyns orðum þessa flokks endaði þolf. fleirt. í fornmálinu á u, t. d. *viðu, liðu, völlu, fjörðu*, af *viður, liður, völlur, fjörður*. Í ritmáli er þessi forna mynd einatt höfð.

Sum karlkyns orð hafa eignarf. eint. eptir fyrsta flokki, en nefnif. fleirt. eptir öðrum, t. d. dalur *dals dalir*, stafur *stafs stafir*, ljár *ljás ljáir*, sár (kerald) *sás sáir*, aptur hafa önnur eignarf. eint. eptir öðrum flokki, en nefnif. fleirt. eptir fyrsta, t. d. skógur *skógar skógar*, höfundur *höfundar höfundar*. Þá ræður fleirtölumyndin flokksskipuninni, svo að orð eins og *dalur* og *stafur* heyra undir annan flokk, en orð eins og *skógur* og *höfundur* undir fyrsta. Þáguf. eint. er opt endingarlaust í karlkynsorðum í báðum flokkum, t. d. hópur *hóp hópnum*, staður *stað staðnum*.

### Þriðji flokkur (r-flokkur).

Dæmi: *Vetur*, *eik*.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | | Eintala. | | |
| Nefnif. | vetur | veturinn, | eik | eikin, |
| þolf. | vetur | veturinn, | eik | eikina, |
| þáguf. | vetri | vetrinum, | eik | eikinni, |
| eignarf. | vetrar | vetrarins, | eikar | eikarinnar, |
| | | Fleirtala. | | |
| Nefnif. | vetur | veturnir, | eikur | eikurnar, |
| þolf. | vetur | veturna, | eikur | eikurnar, |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| þáguf. | vetrum | vetrunum, | eikum | eikunum, |
| eignarf. | vetra | vetranna, | eika | eikanna. |

Í þriðja flokki endar eignarf. eint. á **ar**, nefnif. fleirt á **ur**, (í fornmálinu á **r**), t. d. fótur *fótar fætur*, kind *kindar kindur*, rót *rótar rætur*. *Fingur* er í eignarf. eint. *fingurs*, *vetur* er eins og beygingin sýnir í nefnif. fleirt. *vetur* (ekki *vetrar*). Nokkur kvennkyns orð þessa flokks enda í nefnif. fleirt. á **r**, t. d. kló *klær*, tá *tær*, brú *brýr*. Þau þekkjast frá þeim orðum fyrsta flokks, er hafa fleirtöluendinguna **r** (bls. 12) á því, að orð þessa flokks fá hljóðbreytingu í nefnif. fleirt., en hin ekki Karlkynsorð á **ndi** og **andi** beygjast eptir þessum flokk í fleirtölu t. d. frændi *frændur*, eigandi *eigendur*.

Orðin *mjólk*, *mörk*, *nótt*, *sæng*, *vík* enda í eignarf. eint. á **ur**, *mjólkur*, *merkur*, *nætur*, *sængur*, *víkur*. Í *hönd* er þáguf. eint. óreglulegt *hendi*.

Óregluleg eru karlkyns orðin *maður faðir bróðir* og kvennkyns orðin *móðir dóttir systir*. Eignarf. eint. er *manns*, *föður*, *bróður*, *móður*, *dóttur*, *systur*, nefnif. fleirt. *menn*, *feður*, *bræður*, *mæður*, *dætur*, *systur*, *Faðir* og *bróðir* eru þannig í eignarf. eint. ekki *föðurs bróðurs*, en með greininum *föðursins bróðursins*.

Ýms kvennkyns orð er hafa **a** í stofninum, enda bæði á **ir** og **ur** í nefnif. fleirt. og beygjast þá bæði eptir öðrum og þriðja flokki, t. d. önd *andir* og *endur*, stöng *stangir* og *stengur*.

*Kýr* og *ær* beygjast þannig:

**Kýr.** Kýr kýrin, kú kúna, kú kúnni, kýr kýrinnar. Kýr kýrnar, kúm kúnum, kúa kúnna.

**Ær.** Ær ærin, á ána, á ánni, ær ærinnar. Ær ærnar, ám ánum, áa ánna.

Í fyrsta flokki endar þolf. og þáguf. eint. stundum á **u** í sumum kvennkyns orðum, t. d. *drottning, drottningu drottninguna, drottningu drottningunni*, þannig og stundum þáguf. í kvennkyns orðum í hinum flokkunum t. d. *jörð* og *jörðu, sól* og *sólu, nótt* og *nóttu, eyðimörk* og *eyðimörku.*

Ath. Sterk karlkyns orð enduðu upphaflega á **r** í nefnif. eint. Þetta **r** helst sumstaðar óbreytt, t. d. *mór skór*, en víðast hefur það breyst í **ur**, t. d. *heimur, fundur, fótur* (fyrir *heimr, fundr, fótr*). Stundum hefur **r** breyst í **l** og **n** (tillíkst eða samlagast undanfarandi **l** og **n**) t. d. *hóll steinn* (fyrir *hólr. steinr*), og stundum fallið burt, t. d. *fugl, karl, hrafn, vagn.* Í sumum orðum á **ur** tilheyrir **r** stofninum, þá er **ur** ekki fallending, og skoðast orðið þá sem endingarlaust. Slíkt á sér stað bæði í karlkyns, kvennkyns og hvorugkyns orðum, t. d. *akur, fingur; fjöður, lifur; flaustur, dægur, hreiður.*

## B. Veik beyging.

Dæmi: *Bogi, tunga, auga.*

Eintala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | bogi | boginn, | tunga | tungan, |
| þolf. | boga | bogann, | tungu | tunguna, |
| þáguf. | boga | boganum, | tungu | tungunni, |
| eignarf. | boga | bogans, | tungu | tungunnar. |

Fleirtala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | bogar | bogarnir, | tungur | tungurnar, |
| þolf. | boga | bogana, | tungur | tungurnar, |
| þáguf. | bogum | bogunum, | tungum | tungunum, |
| eignarf. | boga | boganna, | tungna | tungnanna. |

*Auga.* Eint.: nefnif. og þolf. auga augað, þáguf. auga auganu, eignarf. auga augans. Fleirt.: nefnif. og þolf. augu augun, þáguf. augum augunum, eignarf. augna augnanna.

Af ýmsum karlkyns orðum er til bæði sterk og veik mynd, t. d. *hólmur* og *hólmi*, *runnur* og *runni*, *sannleikur* og *sannleiki*, mannanöfn t. d. *Björn* og *Bjarni*, *Örn* og *Árni*. Venjulega er sterka myndin eldri. Orð á *ndi* og *andi* beygjast eptir þriðja flokki sterkra nafnorða í fleirtölu (sjá bls. 14.)

Það er einkennilegt við kvennkyns og hvorugkyns orð þessarar beygingar, að eignarf. fleirt. endar á **na**, t. d. tunga *tungna*, kirkja *kirkna*, auga *augna*, hjarta *hjartna*. Í sumum kvennkyns orðum fellur burt **n**, svo að eignarf. fleirt. verður eins og nefnif. fleirt. t. d. *gyðja*, *lilja*, *lína*, *skemma*, *kerra*. Sum slík orð verða varla höfð í eignarf. fleirt. t. d. *alda*, *bára*. *Kona* er í eignarf. fleirt. óreglulegt *kvenna*.

Til veiku beygingarinnar teljast allmörg kvennkyns orð, sem enda á **i** í öllum föllum eint., en eru ekki til í fleirt., t. d. *elli*, *veiki*, *gleði*, *starfsemi*, *ráðvendni*.

Ath. Til frekari skýringar skal þess getið, að *sterkur* í nafninu „sterk beyging“ þýðir sá sem hefur

áherslu, en *veikur* í „veik beyging“ þýðir áherslulaus. Sterka beygingin hefur nafn sitt af því, að í henni er orðið einatt eitt atkvæði, t. d. *heims* (eignarf. af *heimur*), er hefur áherslu og kallast þá sterkt. Veika beygingin hefur nafn sitt af því, að í henni er fallending orðanna ávallt sjerstakt atkvæði, sem þá er áherslulaust og kallast því veikt. Veika beygingin hefur þannig ávallt einhvern hluta veikan. Í sumum kvennkyns og hvorugkyns orðum, er heyra undir sterku beyginguna, er fallendingin ávallt sjerstakt atkvæði, t d. í orðum sem *heiði, mýri, ríki, stýri,* og í kvennmannanöfnum sem *Hólmfríður, Sigríður,* en þau hafa samt öll einkenni sterku beygingarinnar, svo sem það að eignarf. eint. endar á samhljóðanda, og heyra því undir þá beygingu.

Finn sterk og veik nafnorð í eptirfarandi sögu, og skýr frá, til hvaða flokka þau heyra.

Stjörnufræðingurinn Ísak Newton (frb. njúton) átti hund einn, er hann kallaði Demant. Einn dag var kallað á Newton inn í næsta herbergi, en Demant varð eptir í vinnustofu hans. Fáum mínútum síðar kom Newton aptur inn í vinnuherbergið, og sá þá, að skjöl nokkur, sem margra ára athuganir og útreikningar var ritað á, stóðu í björtu báli, því að Demant hafði rutt um koll kertastjaka með kerti í, sem logaði á. Þetta var með öllu óbætanlegt tjón fyrir Newton, en þó barði hann ekki hundinn, en mælti einungis: „Ó, Demant, Demant! Þú hefur litla hugmynd um, hvílíkt tjón þú hefur bakað mjer.“

---

## 3. Greinirinn.

Greinirinn hefur kyn, tölur og föll, og beygist þannig:

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | hinn | hin | hið |
| þolf. | hinn | hina | hið |
| þáguf. | hinum | hinni | hinu |
| eignarf. | hins | hinnar | hins. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | hinir | hinar | hin |
| þolf. | hina | hinar | hin |
| þáguf. | hinum | í öllum kynjum. | |
| eignarf. | hinna | í öllum kynjum. | |

Eins og áður er getið, er greinirinn *inn*, *in*, *ið*, þegar hann er skeyttur við nafnorð. Þegar hann er skeyttur við sterk nafnorð, fellur stundum burt *i*, en ávallt, þegar hann er skeyttur við veik nafnorð, t. d. *heimi-num*, *skipi-nu*, *heimar-nir*, *nálar-nar*, *skipa-nna*; *bogi-nn*, *tunga-n*, *auga-ð*. Í þáguf. fleirt. fellur *m* burt á undan greininum, t. d. *bogu-num heimu-num*; sömuleiðis fellur burt **a** í eignarf. fleirt., ef annar hljóðstafur fer á undan, t. d. *trjánna*, *ánna*, *frúnna*, *skónna* (fyrir: trjáanna, áanna, frúanna, skóanna); að öðru leyti er greinirinn skeyttur við föllin óbreytt.

Þess ber vandlega að gæta, að þolf. fleirt. með viðskeyttum greini endar í öllum karlkyns orðum á **a** en ekki **ar**. Þannig er ekki rjett að segja eða

skrifa *á veturnar*, heldur *á veturna*, þannig *fæturna*, t. d. að vera votur í *fæturna* (ekki *fæturnar*) *fingurna* („skessan var alltaf að bíta börnin í *fingurna*"), *feðurna*, *bræðurna*, *frændurna*, o. s. frv. Þar á móti enda kvennkyns orð með viðskeyttum greini í þolf. fleirt. á **ar**, t. d. *konurnar*, *kindurnar*, *mæðurnar*, o. s. frv. Þetta er auðfundið, þegar þess er gætt, að greinirinn í þolf. fleirt. í karlkyni er *hina*, en í kvennkyni *hinar*, t. d. *Jeg hitti báða hina ungu bræður*, sama sem *Jeg hitti báða ungu bræðurna*, en *Jeg hitti báðar hinar ungu systur*, sama sem *Jeg hitti báðar ungu systurnar*. *Konurnar*, *kindurnar*, *systurnar*, getur auðvitað einnig verið nefnif. fleirt. því að í í kvennkyns orðum er nefnif. og þolf. fleirt. ávallt eins.

Finn greini og flokka nafnorðin í eptirfarandi sögu.

Maður einn, sem ekki var sjerlega fljótur að fara á fætur á morgnana, var einu sinni spurður, hversvegna hann lægi allan þennan tíma í rúminu. „Jeg er," svaraði hann, „önnum kafinn að taka á móti ráðum; iðnin ræður mjer til að fara á fætur, en letin til að liggja kyr; jeg hlýði á allar ástæður með og móti, og þegar loksins málið er útkljáð, er komið langt fram á dag."

---

## 4. Lýsingarorð.

Lýsingarorð beygjast eftir föllum og tölum sem nafnorð. Þau hafa sjerstaka beygingu fyrir hvert kyn, ennfremur sterka og veika beygingu. Þau hafa sterka beygingu, þegar þau lýsa óákveðnu nafnorði, t. d. *ríkur* maður, *fjörugur* hestur, en veika, þegar þau lýsa ákveðnu nafnorði, t. d. hinn *ríki* maður, hinn *fjörugi* hestur, Ari *fróði*, *góði* vin.

Sterka beygingin er þannig:

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | ríkur | rík | ríkt, |
| þolf. | ríkan | ríka | ríkt, |
| þáguf. | ríkum | ríkri | ríku, |
| eignarf. | ríks | ríkrar | ríks. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | ríkir | ríkar | rík, |
| þolf. | ríka | ríkar | rík, |
| þáguf. | ríkum | í öllum kynjum. | |
| eignarf. | ríkra | í öllum kynjum. | |

Lýsingarorð í hinni veiku mynd beygjast í eint. eins og veik nafnorð, en í fleirt. enda þau í öllum föllum á **u**, t. d. hinn *ríki*, hin *ríka*, hið *ríka*, hinn *ríka*, hina *ríku*, hið *ríka*, hinir *ríku*, hinar *ríku*, hin *ríku*, o. s. frv.

Ath. Um lýsingarorð í nefnif. eint. í karlkyni gildir sama regla sem um sterk nafnorð, að þau enduðu upphaflega á **r**. (Ath. bls. 15); þetta **r** hefur víðast breyst í **ur**, t. d. *góður*, *illur*, *fallegur*, *ljótur*, stundum helst það óbreytt, t. d. *hár*, *mjór*, stundum hef-

ur það breyst í l eða n (samlagast undanfarandi l eða n), t. d. *heill*, *sæll*, *hreinn*, *vænn*, *gamall*, *mikill*, *gjöfull*, *gætinn*, og stundum fallið burt, t. d. *jafn*, *stór*, *hress*, *fús*, *snotur*, *fagur*. Í orðum sem *snotur* og *fagur* tilheyrir r stofninum, og kallast þau því endingarlaus.

Í kvennkyni er lýsingarorðið endingarlaust, t. d. *góð*, *ill*, *snotur*, *há*; ef a er í stofninum breytist það í ö, t. d. *jöfn*, *spök*, *fögur*, *mögur*; í afleiðsluendingum[1]) breytist a í u, t. d. *gömul* af *gamall*.

Í hvorugkyni endar lýsingarorðið vanalega á t, t. d. *ríkt*, *spakt*, *gott* (fyrir *goðt*), *illt*, stundum tvöfaldast t, t. d. *hátt*, *mjótt*, stundum breytist það í ð, t. d. *gætið* (*gætit* fyrir *gætint*), og stundum fellur það burt, t. d. *bjart*, *stutt*, *efnað*, *ættað* (af *bjartur*, *stuttur*, *efnaður*, *ættaður*).

Í orðunum *mikill* og *lítill* er þolf. eint. í karlkyni óreglulegt *mikinn* og *lítinn*, og nefnif. og þolf. eint. í hvorugkyni *mikið*, *lítið*, eins og í lýsingarorðum, sem enda á *inn*. Í orðinu *miður* er *j* skotið inn á undan a og u, t. d. Spjótið kom á hann *miðjan*. Hann sat á *miðjum* bekknum.

Nokkur lýsingarorð enda á a, og eru óbeygjanleg, það er að segja, þau eru eins í öllum kynjum, föllum og báðum tölum, t. d. *einmana*, *gjaldþrota*.

Sú mynd, er lýsingarorðið hefur, þegar ein-

---

1) Afleiðsluending kallast sú ending, er bætt er við orð eða orðrót, til þess að mynda nýtt orð t. d. *ull*, *all*, *gjöfull* af *gjöf*, *gamall* af rótinni *gam*.

hverju er lýst blátt áfram eða án samanburðar við annað, kallast **frumstig** *(positivus)*, t. d. maðurinn er *ríkur*, veðrið er *fagurt*. En þegar tekið er fram, að eitthvað sje að einhverju leyti á hærra stigi en eitthvað annað, fær lýsingarorðið nýja mynd, sem kallast **miðstig** *(comparativus)*, t. d. Pjetur er *ríkari* en Páll. Það er *betra* veður í dag en í gær. Þegar tekið er fram, að eitthvað sje á hæsta stigi, fær lýsingarorðið enn aðra mynd, sem kallast **yfirstig** eða hástig *(superlativus)*, t. d. *Ríkastur* allra er Björn. Öræfajökull er *hæst* fjall á Íslandi. Breyting sú, er þannig verður á lýsingarorðunum kallast **stigbreyting** *(comparatio)*.

Miðstig myndast með því að bæta við endingunni **ari** eða **ri**, yfirstig með því að bæta við endingunni **astur** eða **stur**, t. d. *glaður glaðari glaðastur, vitur vitrari vitrastur*, *feginn fegnari fegnastur*, *mjór mjórri mjóstur*, *hár hærri hæstur*, *fagur fegri fegurstur* (ekki *fagrari fagrastur)*, *magur megri megurstur* (ekki *magrari magrastur)*.

Eins og sjá má af dæmunum, fara venjulega saman endingarnar **ari** og **astur**, **ri** og **stur** í stigbreytingunni. Þó er undantekning frá því. Lýsingarorð á **legur** og **ugur** mynda miðstig með **ri** og yfirstig með **astur**, t. d. *fallegur fallegri fallegastur*, *grösugur grösugri grösugastur.* Stundum breytist **r** í endingunni **ri** í **l** eða **n**, svo að miðstigsendingin verður **li** eða **ni**. t. d. *sæll sælli sælastur*, *gjöfull gjöfulli gjöfulastur*, *beinn beinni beinastur*, *kænn kænni kænastur*, en *vænn vænni vænstur.*

Nokkur lýsingarorð mynda miðstig og yfirstig af öðrum stofni en frumstigið, og eru þannig óregluleg.

| *Frumstig* | *Miðstig* | *Yfirstig* |
|---|---|---|
| góður | betri | bestur, |
| vondur<br>illur<br>slæmur | verri | verstur, |
| gamall | eldri | elstur, |
| margur | fleiri | flestir, |
| mikill | meiri | mestur, |
| lítill | minni | minnstur. |

Ath. Nokkur lýsingarorð eru einungis til í miðstigi og yfirstigi, svo sem *fremri fremstur*, *aptari aptastur*, *fyrri fyrstur*, *síðari síðastur*, *síðri sístur*, *efri efstur*, *neðri neðstur*, *innri innstur*, *ytri ystur*, *heldri helstur*, *æðri æðstur*.

Lýsingarorð í miðstigi hafa veika beygingu; í í eintölunni enda þau í karlkyni og nefnif. á i, en í hinum föllunum á i og a, t. d. *betri* mann og *betra* mann, *betri* manni og *betra* manni, *betri* manns og *betra* manns; í fornmálinu enduðu öll þessi þrjú föll (þolf., þáguf. og eignarf. eint.) á a. Í kvennkyni enda lýsingarorð í miðstigi í öllum föllum eint. á i og í hvorugkyni á a. Í allri fleirtölunni enda þau á i. Yfirstigið beygist eptir sterku og veiku beygingunni eins og lýsingarorð á ur, t. d. *ríkastur*, *ríkust*, *ríkast*, hinn *ríkasti*, hin *ríkasta*, hið *ríkasta*.

Lýsingarorð á a stigbreytast ekki, svo sem *máttvana*, *örmagna*.

Finn lýsingarorð, og sýn beygingu þeirra og stigbreytingu í eptirfarandi grein.

Eitthvert hið fegursta dýr, sem vér höfum kynni af, er fallegur hestur. Þegar þess er gætt, hversu mikil kostaskepna hesturinn er, að hann er bæði fjörmikill, skynugur og vitur opt og einatt, auk þess sem hann er sterkur og þolinn, þá er skiljanlegt, að hann hefur jafnan þótt eitthvert hið mikilsverðasta, nytsamasta og nauðsynlegasta húsdýr, enda hefur hann frá ómuna tíð verið að heita má einhver hin öflugasta og styrkasta stoð, sem maðurinn hefur haft. Að skapnaði er hann fegri og liðlegri en flest önnur dýr, snöggur og sljettur í háralagi, hvort sem hann er hvítur, grár, jarpur, rauður, bleikur eða brúnn á lit. Þá er ekki hvað minnst prýði að faxi hans og tagli, en þó er það einkum höfuðið, hinar stóru nasir, hin dökku, sviphreinu og fjörlegu augu, sem gjörir hestinn svo ásjálegan, tígulegan og fríðan.

---

## 5. Töluorð.

Helstu töluorð eru frumtölur (fjöldatölur) og raðtölur. **Frumtölur** *(cardinalia)* kallast þær tölur, sem talið er með blátt áfram, t. d. *einn*, *tveir*, *þrír*, *fjórir*, en **raðtölur** *(ordinalia)* þær, sem sagt er með, hver í röðinni einhver er, t. d. *fyrsti*, *annar*, *þriðji*, *fjórði*. Með raðtölunum er opt hafður greinir, t. d. *hinn fyrsti*, *hinn annar*.

*Frumtölur.* Einn, tveir, þrír, tjórir, fimm, sex, sjö, átta, níu, tíu, ellefu, tólf, þrettán, fjórtán, fimmtán, sextán, sautján (seytján), átján, nítján, tuttugu, tuttugu og einn, tuttugu og tveir, o. s. frv. þrjátíu, fjörutíu, fimmtíu, sextíu, sjötíu, áttatíu, níutíu, hundrað, þúsund, miljón.

Fjórar fyrstu frumtölurnar beygjast; hinar eru óbeygjanlegar upp að *hundrað*. *Hundrað* fær fleirtölumyndina *hundruð*, þegar um fleiri en eitt hundrað er að ræða. Að öðru leyti er *hundrað* og jafnframt *þúsund* ýmist höfð sem lýsingarorð, og eru þá óbeygjanleg, eða þau eru nafnorð og beygjast þá eptir sterku beygingunni. t. d. *tvö hundruð menn* og *tvö hundruð manna* (einnig *tvö hundruð manns*), *tvö hundruð mönnum* og *tveim hundruðum manna*, *tvö þúsund* og *tvær þúsundir*. *Miljón* er nafnorð og beygist eins og *hæð*.

*Einn* er í hvorugkyni *eitt*, en beygist að öðru leyti eins og greinirinn.

*Tveir*, *þrír* og *fjórir* beygjast þannig:

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *tveir* | *tvær* | *tvö*, |
| þolf. | *tvo* | *tvær* | *tvö*, |
| þáguf. | *tveimur* og *tveim* | | í öllum kynjum. |
| eignarf. | *tveggja* | | |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *þrír* | *þrjár* | *þrjú*, |
| þolf. | *þrjá* | *þrjár* | *þrjú*, |
| þáguf. | *þremur* og *þrem* | | í öllum kynjum. |
| eignarf. | *þriggja* | | |

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *fjórir* | *fjórar* | *fjögur*, |
| þolf. | *fjóra* | *fjórar* | *fjögur*, |
| þáguf. | *fjórum* | | í öllum kynjum. |
| eignarf. | *fjögurra* og *fjögra* | | í öllum kynjum. |

*Raðtölur.* Fyrsti, annar, þriðji, fjórði, fimmti, sjötti, sjöundi, áttundi, níundi, tíundi, ellefti, tólfti, þrettándi, fjórtándi, fimmtándi, sextándi, sautjándi (seytjándi), átjándi, nítjándi, tuttugasti, tuttugasti og fyrsti, tuttugasti og annar, o. s. frv., þrítugasti, fertugasti, fimmtugasti, sextugasti, sjötugasti, áttugasti, nítugasti, hundraðasti, þúsundasti, miljónasti.

Allar raðtölur nema *annar* beygjast eins og lýsingarorð með greini; um beyginguna á *annar* er getið í kaflanum um fornöfnin.

**Margföldunartölur** *(multiplicativa).* Þær myndast af frumtölunum með endingunni *faldur*, t. d *einfaldur*, *tvöfaldur*, *þrefaldur*, *fjórfaldur*, *ferfaldur*, *fimmfaldur*, o. s. frv.

**Skiptitölur** *(distributiva).* Svo kallast þær tölur. er segja tölu á því, sem í sjálfu sér er tvöfalt eða fleirfalt. Þær eru *einir*, *tvennir*, *þrennir*, *fernir*; öll nema *einir* eru einnig til í sumum föllum eint. t. d. þessi piltur á *tvennan* fatnað. Þarna kemur eitthvað *þrennt.*

**Lýsingarorð, er tákna aldur, lengd og dýpt.** Þau myndast af frumtölunum með endingunum *tugur* og *ræður*, *tvítugur*, *þrítugur*, *fertugur*, *fimmtugur*, *sextugur*, *sjötugur*, *áttræður*, *nítugur* og *níræður*, *tíræður*, *tólfræður*; *tvítugur* þýðir venjulega *tuttugu ára gamall*, en getur einnig þýtt *tuttugu faðma djúpur*, t. d. *tvítugt dýpi*, einnig *tuttugu álna langur*, t. d. *tvítugur*

*hvalur;* sama er að segja um hin orðin á *tugur* og *ræður.*

**Tölunafnorð.** Þau tákna sumpart fjölda og sumpart hluta úr deild. Þau, sem tákna fjölda, eru fyrir utan *hundrað, þúsund* og *miljón,* sem áður eru nefnd, *eining, tvenning, þrenning, fimmt, sjöund, áttund, níund, tíund, tugur, tylft.* Þau sem tákna hluta úr heild eru *þriðjungur, fjórðungur, fimmtungur, sjöttungur, áttungur, tólftungur.*

**Töluatviksorð.** Þau eru *tvisvar þrisvar, tvívegis þrívegis.* Til að margfalda með eru höfð orðin *tvisvar* og *þrisvar,* einnig orðið *sinn,* t. d. *einu sinni, tvisvar, tvisvar sinnum* og *tveim sinnum, þrisvar, þrisvar sinnum* og *þrem sinnum, fjórum sinnum, fimm sinnum,* o. s. frv.

## Lítið reikningsdæmi.

Maður einn, sem var nokkuð frekur í sjer, spurði annan mann í samkvæmi: „Hversu gamall er afi yðar, faðir yðar og þjer sjálfur.“ Hinn hugsaði sjer þá að reyna í honum þolrifin með, hve góður reikningsmaður hann væri, og svaraði: Það er mjög auðvelt að finna það, afi minn og faðir minn eru til samans 115 ára, afi minn og jeg 91 árs og faðir minn og jeg 64 ára. En sá, sem spurt hafði, gat þá ekki reiknað þetta, og hafði því lítinn sóma af spurulsemi sinni. En hversu gamall var þá hver? Afi mannsins var 71 árs, faðir hans 44 ára, og sjálfur var hann 20 ára.

Sjeu 91 lagðir við 115 koma út 206, sjeu þar

frá dregnir 64, koma út 142, en það er tvöfaldur aldur afans; út úr því er auðfundinn aldur hinna.

---

## 6. Fornöfn.

Fornöfn skiptast í sjö flokka:

1. *persónufornöfn*, 2. *afturbeygilegt* (apturvísandi) *fornafn*, 3. *eignarfornöfn*, 4. *ábendingarfornöfn*, 5. *spyrjandi fornöfn*, 6. *tilvísunarfornöfn*, 7. *óákveðin fornöfn*.

1. **Persónufornafn** (pronomen personale) kallast það fornafn, sem stendur í stað persónu. *Fyrsta persóna* kallast sá, sem talar, *önnur persóna* sá, sem talað er við, og *þriðja persóna* sá, sem talað er um. Fornafn fyrstu persónu er því **jeg**, fornafn annarar persónu **þú**, og þriðju persónu **hann, hún, það.**

Það er einkennilegt við fornöfn fyrstu og annarar persónu, að þau hafa þrjár tölur, *tvítölu* auk eint. og fleirt.

Þau beygjast þannig:

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. | jeg | þú |
| þolf. | mig | þig |
| þáguf. | mjer | þjer |
| eignarf. | mín | þín. |

Tvítala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. | við | þið |

| | | |
|---|---|---|
| þolf. og þáguf. | okkur | ykkur |
| eignarf. | okkar | ykkar |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. | vjer | þjer |
| þolf. og þáguf. | oss | yður |
| eignarf. | vor | yðar. |

Í fornmálinu var tvítalan *við*, *þið* höfð, þegar að eins var talað um tvennt, en nú er hún höfð, hvort sem talað er um tvennt eða fleira. Fleirtölumyndin *þjer* er höfð, þegar þjerað er. *Vjer* er varla haft nema í ritmáli.

*Hann* beygist þannig:

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | hann | hún | það |
| þolf. | hann | hana | það |
| þáguf. | honum | henni | því |
| eignarf. | hans | hennar | þess. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | þeir | þær | þau |
| þolf. | þá | þær | þau |
| þáguf. | þeim | í öllum kynjum. | |
| eignarf. | þeirra | í öllum kynjum. | |

Þess ber að gæta að nefnif. og þolf. fleirt. er *þau*, en ekki *þaug*.

2. **Apturbeygilegt fornafn** (pronomen reflexivum) er **sig**. Það vísar til baka til þriðju persónu, og er haft, þegar sá, sem um er talað, gjörir eitt-

hvað, er snertir hann sjálfan, t. d. Drengurinn klæddi *sig*. Þessi piltur sjer um *sig*. Þetta fornafn er ekki til í nefnif., en í hinum föllunum er það *sig*, *sjer*, *sín*. Það er eins í eint. og fleirt.

3. **Eignarfornöfn** (pronomina possessiva) myndast af fornöfnum fyrstu og annarar persónu og fornafninu *sig*. Þau eru í nútíðarmáli fjögur: **Minn**, **þinn**, **sinn**, **vor**. *Minn*, *þinn*, *sinn* beygjast eins og töluorðið *einn*, þó er haft í en ekki i á undan einföldu **n**, t. d. *mínar*, *mínir*, *mín*. *Vor* beygist eins og *ríkur*, nema að þolf. eint. í karlkyni er *vorn*. *Vor* er varla haft nema í ritmáli.

Ath. Í fornmálinu voru að auki þrjú eignarfornöfn, *okkarr*, *ykkarr* og *yðvarr*, sem einnig hafði myndina *yðarr*. Þau beygðust sem hin eignarfornöfnin eptir kynjum og tölum líkt og orðið *annar*. Eint. nefnif. *okkarr okkur okkart*, þolf. *okkarn okkra okkart*, þáguf. *okkrum okkarri okkru*, eignarf. *okkars okkarrar okkars*. Fleirt. nefnif. *okkrir okkrar okkur*, þolf. *okkra okkrar okkur*, þáguf. *okkrum*, eignarf. *okkarra*. Í stað þessara eignarfornafna eru í nútíðarmáli hafðar eignarfallsmyndirnar *okkar* og *ykkar*, og *yðar*, þegar þjerað er.

4. **Ábendingarfornöfn** (pr. demonstrativa) eru höfð, þegar bent er á eitthvað, til þess sjerstaklega að vekja á því athygli, t. d. *þetta* fjall er bratt; *þennan* mann þekki jeg ekki. Ábendingarfornöfn eru **sá**, **þessi**, **hinn**. *Hinn* beygist eins og greinirinn, nema að nefnif. og þolf. í hvorgkyni eint. er *hitt*.

*Sá* og *þessi* beygjast þannig:

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | sá | sú | það |
| þolf. | þann | þá | það |
| þáguf. | þeim | þeirri | því |
| eignarf. | þess | þeirrar | þess. |

Fleirtalan er hin sama sem af fornafni þriðju persónu.

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | þessi | þessi | þetta |
| þolf. | þennan | þessa | þetta |
| þáguf. | þessum | þessari | þessu |
| eignarf. | þessa | þessarar | þessa. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | þessir | þessar | þessi |
| þolf. | þessa | þessar | þessi |
| þáguf. | þessum | í öllum kynjum. | |
| eignarf. | þessara | | |

Þess ber að gæta, að nefnif. og þolf. í hvorugkyni eint. er *þetta*, en ekki *þettað.*

5. **Tilvísunarfornöfn** (pr. relativa) eru **sem** og **er**. Þau vísa til einhvers, sem á undan er komið, t. d. Það eru til jurtir, *sem* eru eitraðar. Hjerna er bók, *sem* jeg keypti í gær. Þessi fornöfn eru eins í öllum föllum og báðum tölum.

6. **Spyrjandi fornöfn** (pr. interrogativa) eru höfð, þegar spurt er. Þau eru **hver, hvor, hvað, hvaða.** *Hver* og *hvor* beygjast eins og *vor*, nema að í

*hver* er j skotið inn í á undan þeim endingum, sem byrja á hljóðstaf, t. d. *hverjir*, *hverjar*, *hverjum*, *hverja*. *Hvað* er einungis til í nefnif. og þolf. eint., en sem þágut. og eignarf. er haft *hverju*, *hvers* af *hver*. *Hvaða* er eins í öllum föllum og báðum tölum.

*Hvor* er haft, þegar um tvo er að tala, en *hver*, þegar fleiri eru; í tali er þó haft *hver* og þá framborið *kvur*, þótt að eins sje um tvo að ræða, en í ritmáli er þessa munar gætt.

7. **Óákveðin fornöfn** (pr. indefinita) líkjast mjög lýsingarorðum. Þau hafa nafn sitt af því, að það er varla hægt að ákveða, hvort þau sjeu heldur fornöfn eða lýsingarorð. Til þeirra eru hjer talin þessi orð *einn*, *einhver*, *sjerhver*, *nokkur*, *neinn*, *enginn*, *báðir*, *hvorugur*, *annar*, *annarhvor*, *hvortveggi*, *það*.

*Einn* og *neinn* beygjast eins og töluorðið *einn*. *Einhver* og *sjerhver* beygjast eins og *hver*. Forskots-atkvæðin *ein* og *sjer* breytast ekki nema að *ein* í *einhver* er í nefnif. og þolf. eint. í hvorugkyni *eitt*. Auk myndanna *eitthvert* og *sjerhvert* eru einnig til myndirnar *eitthvað* og *sjerhvað*; þær eru hafðar sem nafnorð.

*Nokkur* er venjulega dregið saman í beygingunni og beygist þá sem *snotur*, nema að nefnif. og þolf. eint. er bæði *nokkurt* og *nokkuð* og þolf. eint. í karlkyni er *nokkurn*.

*Enginn* beygist þannig:

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | enginn | engin | ekkert |
| þolf. | engan | enga | ekkert |

| | | | |
|---|---|---|---|
| þáguf. | engum | engri | engu |
| eignarf. | einskis | engrar | einskis *og* |
| *og* | einkis | | einkis. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | engir | engar | engin |
| þolf. | enga | engar | engin |
| þáguf. | engum | í öllum kynjum. | |
| eignarf. | engra | | |

Ath. Af þessu fornafni er til önnur mynd, sem bæði er höfð í fornritum og daglegu tali, en þó einungis í sumum föllum, s. s. *öngvan öngva öngvu, öngvir öngvar öngvum.* Þessi mynd orðsins þykir ófegri en hin, og er því ekki höfð í ritmáli nú á dögum.

*Báðir* beygist eins og *ríkur* í fleirt., nema að nefnif. og þolf. í hvorugkyni er *bæði* og eignarf. *beggja.*

*Annar* beygist þannig:

Eintala.

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | annar | önnur | annað |
| þolf. | annan | aðra | annað |
| þáguf. | öðrum | annari | öðru |
| eignarf. | annars | annarar | annars. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | aðrir | aðrar | önnur |
| þolf. | aðra | aðrar | önnur |
| þáguf. | öðrum | í öllum kynjum. | |
| eignarf. | annara | | |

*Annarhvor* beygist sem *annar* og *hvor*, báðir partarnir beygjast.

Í *hvortveggi* beygist fyrri hlutinn sem *hvor* ósamsett, og *tveggi* eptir hinni veiku beygingu lýsingarorða sem hinn *ríki*. Önnur mynd þessa orðs er *hvortveggja*, og beygist þá að eins fyrri hlutinn *hvor*, en tveggja helst óbreytt, enda er það eignarf. af *tveir*. Í nútíðarmáli er þetta orð lítið haft nema nefnif. og þolf. eint. í hvorugkyni.

Fornafnið *það* er óákveðið fornafn í slíkum talsháttum sem: *Það er logn; það er hvasst; það rignir; það snjóar.*

Ath. Þá má enn telja nokkur orð, sem eptir merkingu sinni heyra undir óákveðin fornöfn, en eptir beygingunni eru lýsingarorð, s. s. *sjálfur, hinn sami, samur, allur, margur, fáir, sumir, ýmsir.*

Finn fornöfn, flokka þau og skýr frá beygingu þeirra í eptirfarandi sögu.

Bóndi nokkur kom til dómara, sem ekki þótti ávallt sem rjettlátastur, og kvaðst hafa ljótar frjettir að segja. „Hvað er það?“ spurði dómarinn. „Jeg á naut eitt, illt og manneygt,“ svaraði bóndinn, „og nú hefur það, stangað eina kúna yðar, svo að hún liggur dauð úti í haga. Það er sjálfsagt að jeg bæti yður skaðann, en jeg vona, að þjer verðið nú ekki harður við fátækan mann.“ „Já rjett,“ mælti dómarinn, „en þjer verðið þó að játa, að það er ekki nema sanngjarnt, að þjer borgið mjer skaðann fullu verði, eða látið mig fá jafngóða kú í staðinn.“

„Auðvitað“, sagði bóndinn, „en þetta hefur skolast í mjer. Það var nautið yðar, sem drap eina af kúnum mínum. „Á! það er annað mál,“ svaraði dómarinn, „en jeg skal fara og rannsaka málið, og ef“ . . . „Og ef,“ greip bóndinn fram í, „nú þarf að vera *ef*, þegar þjer eigið sjálfur að greiða bætur, en þess þurfti ekki, þegar þjer álituð, að þjer hefðuð rjett til að heimta þær af öðrum.“

---

## 7. Sagnir.

Við beygingu sagna koma til greina *fimm atriði*, nefnilega **tíð, persóna, tala, háttur, mynd.**

Það, sem sögnin segir að gjörist, má hugsa sjer að fari fram annaðhvort á yfirstandandi tíma, liðnum tíma eða ókomnum tíma. Samkvæmt þessu hafa sagnirnar þrjár höfuðtíðir, *nútíð*, *þátíð* (liðna tíð) og *framtíð* (ókomna tíð). Auk þess hafa sagnirnar fimm aðrar tíðir (aukatíðir), til þess að tiltaka nákvæmar tíma þann, er eitthvað gjörist á. Tíðirnar verða því átta alls.

1. **Nútíð** *(præsens)* táknar, að eitthvað sje að gjörast, með öðrum orðum, segir frá því, sem verið er að gjöra, t. d. jeg *skrifa*, hann *talar*.

2. **Þátíð** *(imperfectum)* táknar, að eitthvað gjörðist einhvern tíma áður, t. d. jeg *skrifaði*, hann *talaði*.

3. **Núliðin tíð** *(perfectum)* táknar, að eitthvað sje fullbúið eða um garð gengið, segir frá því, sem hefur gjörst, t. d. jeg *hef skrifað*, hann *hefur talað*.

4. **Þáliðin tíð** (*plusqvamperfectum*) táknar, að búið var að gjöra eitthvað á þeim eða þeim tíma, segir frá því, sem hafði gjörst, t. d. jeg *hafði skrifað*, hann *hafði talað*.

5. **Framtíð** (ókomin tíð, *futurum*) táknar, að eitthvað muni verða gjört einhvern tíma síðar, t. d. jeg *mun skrifa*, hann *mun tala*.

Ath. Nútíð er opt höfð til að tákna eitthvað óorðið, t. d. jeg *kem* á morgun, sama sem: jeg *mun koma* á morgun.

6. **Þáframtíð** (liðin framtíð, *futurum exactum)* táknar, að eitthvað óorðið muni verða búið eða um garð gengið, þegar kominn sje einhver tiltekinn ókominn tími, t. d. jeg *mun hafa skrifað*, hann *mun hafa talað*; þáframtíð er helst höfð, þegar líklegt þykir, að eitthvað hafi gjörst þá eða þá, t. d. hann *mun hafa lokið* við bókina í gær.

7. **Skildagatíð** *(conditionalis)* táknar, að eitthvað muni verða gjört, ef fullnægt yrði einhverju skilyrði, t. d. jeg *mundi skrifa*; jeg *mundi slá*, ef jeg hefði orf og ljá.

8. **Þáskildagatíð** (liðin skildagatíð, *conditionalis exactum)* táknar, að eitthvað hefði verið gjört, ef einhverju vissu skilyrði hefði verið fullnægt, t. d. jeg *mundi hafa skrifað*; jeg *mundi hafa sent* þjer hestinn, ef jeg hefði fengið ferð, en þetta má einnig orða þannig: jeg *hefði sent* þjer hestinn, ef o. s. frv.

Skildagatíðirnar tákna stundum eitthvað ókomið, t. d. hann sagði, að pósturinn *mundi koma* um hádegið; jeg taldi víst, að hann *mundi hafa sent* þjer hestinn.

Orðmyndin *skrifað*, *talað*, *sent*, o. s. frv. sem höfð er í öllum liðnum tíðum nema þátíð, kallast **sagnbót** (*supinum*).

Sumar tíðir einkum nútíð, þátíð og núliðin tíð eru opt nákvæmar tilteknar með sögninni *vera*, t. d. jeg *er að skrifa*, jeg *var að skrifa*, jeg *hef verið að skrifa*.

Sagnirnar hafa tvær tölur, **eintölu** og **fleirtölu**, t. d. jeg *skrifa*, hann *talar*; vjer *skrifum*, þeir *tala*.

Sagnirnar hafa *þrjár persónur* í hvorri tölunni fyrir sig, fyrsta persóna: *jeg tala*, önnur persóna: *þú talar*, þriðja persóna: *hann talar*; fyrsta persóna fleirt.: *vjer tölum*, o. s. frv.

**Háttur** (*modus*) kallast sú mynd sagna, er sýnir, hvernig eitthvað gjörist eða fer fram. Hættir sagna eru fimm: *framsöguháttur*, *viðtengingarháttur*, *boðháttur*, *nafnháttur* og *hluttaksorð*.

1. **Framsöguháttur** (*indicativus*) er hafður, þegar sagt er frá einhverju blátt áfram, t. d. jeg *skrifa*, hann *talar*.

2. **Viðtengingarháttur** (*conjunctivus*) er hafður, þegar það, sem sögnin segir að gjörist, er bundið við eitthvað annað, t. d. margir spá, að pósturinn *komi* í dag. Þessi háttur er einnig hafður, þegar einhvers er óskað, t. d. *blómgist* Ísland. Viðteng-

ingarhátt má fljótlega finna, með því að byrja setningu með *þótt* eða *þó að*, t. d. þótt hann *skrifi* vel, skrifar hann ekki eins vel og bróðir hans; margur er knár, þótt hann *sje* smár.

3. **Boðháttur** (*imperativus*) er hafður, þegar eitthvað er boðið eða skipað, t. d. *far* þú, *sæktu* hestinn.

4. **Nafnháttur** (*infinitivus*) er hafður, þegar sögn er að eins nefnd, en ekkert frekara sagt, t. d. *að skrifa*, *að tala*. Nafnháttur er hafður á eftir ýmsum sögnum, og fellur þá stundum burt nafnháttarmerkið *að*, t. d. hann er *að skrifa;* hann þorði ekki *að koma;* hann vill ekki *fara* inn; þú mátt *eiga* bókina.

5. **Hluttaksorð** (*participia*) eru tvö, hluttaksorð nútíðar og hluttaksorð þátíðar. **Hluttaksorð nútíðar** (*participium præsens*) táknar, að einhver sje að gjöra eitthvað, t. d. *skrifandi*, *talandi;* **hluttaksorð þátíðar** (*participium perfectum*), táknar, að búið sje að gjöra eitthvað, eða að eitthvað sje orðið t. d. *skrifaður*, *talaður*.

Ath. Hluttaksorðin hafa nafn sitt af því, að þau hafa hlutdeild í eðli lýsingarorða, með öðrum orðum eru einskonar sagnleg lýsingarorð. Hluttaksorð nútíðar eru venjulega eins í öllum föllum eint. og fleirt. en hluttaksorð þátíðar beygjast eins og lýsingarorð. Ýms hluttaksorð nútíðar hafa orðið að nafnorðum, t. d. *eigandi*, *stjórnandi*. Af hluttaksorði þátíðar myndast sagnbót sagna, t. d. *skrifað* af, *skrifaður*, *talað* af *talaður*.

Sagnir hafa þrjár tegundir eða **myndir**, sem kallast, *áhrifsmynd*, *miðmynd* og *þolmynd*.

**Áhrifsmynd** *(forma activa)* kallast mynd sagnarinnar, þegar sögnin skýrir frá, að einhver hafist eitthvað að, t. d. jeg *skrifa*, hann *talar*; pilturinn *las* bókina, smalamaður *rak* fjeð heim.

**Miðmynd** (sigmynd, *forma reflexiva)* táknar, að einhver gjöri eitthvað við sjálfan sig, t. d. hann *varðist* vel, sama sem: hann *varði sig* vel; hann *kvaðst* heita Geir, sama sem: hann *kvað sig* heita Geir. Miðmyndin endar ávallt á **st**; það var upphaflega **sk**, komið af *sik*, sem var forna myndin af *sig*.

**Þolmynd** (*forma passiva)* kallast mynd sagnarinnar, þegar sögnin skýrir frá, að einhver verði fyrir áhrifum eða verknaði, t. d. kindin *var bitin*, túnið *var slegið*, fjeð *hefur verið rekið* heim.

Ath. Miðmynd sagna hefur opt þolmerkingu, t. d. sú kona *kallast* ekkja, er maður hennar er dáinn, sama sem, sú kona *er kölluð* ekkja, er, o. s. frv. Stundum táknar miðmyndin, að tveir eða fleiri gjöri hið sama hvor við annan, og kallast þá merking sagnarinnar g a g n v e r k a n d i *(reciproca)* t. d. *þeir heilsuðust*, sama sem *þeir heilsuðu hvor öðrum*, *við sjáumst* aptur, sama sem, *við sjáum hvor annan* aptur.

Af tíðum sagna myndast að eins nútíð og þátíð í áhrifsmynd og miðmynd eingöngu af sögninni sjálfri. Til þess að mynda hinar tíðirnar, þarf að hafa sagnirnar, *hafa*, *munu* og *vera*. Þær kallast því **hjálpsagnir** *(verba auxiliaria)*. Þær tíðir, sem sem ekki myndast með hjálpsögnum, kallast *ósamsettar tíðir*, hinar *samsettar tíðir*.

Finn tíðir, persónur, tölur og hætti í eptirfarandi sögu.

Maður einn var einu sinni að segja frá því, hve ógurlega mikla óbeit hann hefði á köttum, og gjörði veður mikið af, hversu það hefði ætlað að líða yfir sig, þegar köttur hefði komið nálægt sjer, og hann hefði jafnvel ekki þurft meira, en að verða litið á eitt kattarhár. „Rjett er það“, sagði maður einn viðstaddur, sem þótti nóg um allt þetta skvaldur, „það var líka nokkuð skrítið, sem kom fyrir mig hjerna um daginn. Jeg var á gangi úti á stræti, og þá veit jeg ekki fyrri til, en það kemur einhver ógnarlegur hrollur yfir mig, jeg skalf og nötraði, og ætlaði alveg út af að deyja. Jeg skildi ekkert í þessu, fór þó að líta í kringum mig, ef jeg gæti einhvern veginn orðið þess vísari, hvernig á þessu gæti staðið. Og viti menn! Jeg sje þá, að það er dregin upp mynd af ketti á húshliðinni rjett uppi yfir, þar sem jeg stend.“

---

## 8. Beygingar sagna.

Sagnir hafa tvær beygingar, **veika** og **sterka**. Í veiku beygingunni myndast þátíðin, með því að bæta við endingu, **aði ði di ti**, t. d. jeg *kallaði*, *þorði*, *fylgdi*, *vakti*, af *kalla*, *þora*, *fylgja*, *vaka*. Í sterku beygingunni hefir þátíð framsöguháttar enga endingu, en venjulega verður breyting á hljóðstaf

stofnsins, t. d. jeg *fann*, *gaf*, *tók*, *bauð*, af *finna*, *gefa*, *taka*, *bjóða*; stundum helst þó hljóðstafur stofnsins óbreyttur í þátíðinni, en þá að eins í eint. (nema í sögninni *koma*, jeg *kom*, vjer *komum*), t. d. *gjalda*, *galt*, *guldum*; *stökkva*, *stökk*, *stukkum*. Af hjálpsögnunum eru *hafa* og *munu* veikar, en *vera* sterk.

Ath. Veika beygingin hefur nafn sitt af því, að þátíðin hefur ávallt einn hluta *veikan*, það er að segja áherslulausan, nefnilega endinguna, en sterka beygingin af því, að þátíð framsöguháttar er, sje sögnin ósamsett, ávallt eitt atkvæði, sem þá hefur áherslu, og kallast því *sterkt*.

Sagnir beygjast í ósamsettum tíðum á þann hátt, er nú skal greina. Dæmi: *kalla*, *finna*.

| Veik beyging. | Sterk beyging. |
| --- | --- |

### Áhrifsmynd.

*Framsöguháttur.*

Nútíð.

| | |
| --- | --- |
| Jeg kalla, þú kallar, hann kallar, vjer köllum, þjer kallið, þeir kalla. | Jeg finn, þú finnur, hann finnur, vjer finnum, þjer finnið, þeir finna. |

Þátíð.

| | |
| --- | --- |
| Jeg kallaði, þú kallaðir, hann kallaði, vjer köll-uðum, þjer kölluðuð, þeir kölluðu. | Jeg fann, þú fannst, hann fann, vjer fundum, þjer funduð, þeir fundu. |

*Viðtengingarháttur.*

Nútíð.

Jeg kalli, þú kallir, hann kalli, vjer köllum, þjer kallið, þeir kalli.

Jeg finni, þú finnir, hann finni, vjer finnum, þjer finnið, þeir finni.

Þátíð.

Þátíðin er eins og þátíð framsöguháttar.

Jeg fyndi, þú fyndir, hann fyndi, vjer fyndum, þjer fynduð, þeir fyndu.

*Boðháttur.*

Nútíð.

Kalla þú *og* kallaðu, kallið þjer.

Finn þú *og* findu, finnið þjer.

*Nafnháttur.*

Nútíð.

að kalla.

að finna.

*Hluttaksorð nútíðar.*

kallandi.

finnandi.

*Sagnbót.*

kallað.

fundið.

**Miðmynd.**

*Framsöguháttur.*

Nútíð.

Jeg kallast, þú kallast, hann kallast, vjer köll-

Jeg finnst, þú finnst, hann finnst, vjer finnumst,

umst, þjer kallist, þeir kallast.

þjer finnist, þeir finnast.

Þátíð.

Jeg kallaðist, þú kallaðist, hann kallaðist, vjer kölluðumst, þjer kölluðust, þeir kölluðust.

Jeg fannst, þú fannst, hann fannst, vjer fundumst, þjer fundust, þeir fundust.

*Viðtengingarháttur*

Nútíð.

Jeg kallist, þú kallist, hann kallist, vjer köllumst, þjer kallist, þeir kallist.

Jeg finnist, þú finnist, hann finnist, vjer finnumst, þjer finnist, þeir finnist.

Þátíð.

Þátíðin er eins og þátíð framsöguháttar.

Jeg fyndist, þú fyndist, hann fyndist, vjer fyndumst, þjer fyndust, þeir fyndust.

*Boðháttur.*

Nútíð.

kallast þú *og* kallastu, kallist þjer.

finnst þú *og* finnstu, finnist þjer.

*Nafnháttur.*

Nútíð.

að kallast

að finnast.

*Sagnbót.*

kallast.

fundist.

**Þolmynd.**

*Hluttaksorð þátíðar.*

kallaður, kölluð, kallað.

fundinn, fundin, fundið.

## Beyging hjálpsagna.

**Að hafa.**

*Framsöguháttur.*

Nútíð.

Jeg hef, þú hefur, hann hefur, vjer höfum, þjer hafið, þeir hafa.

Þátíð.

Jeg hafði, þú hafðir, hann hafði, vjer höfðum, þjer höfðuð, þeir höfðu.

*Viðtengingarháttur.*

Nútíð.

Jeg hafi, þú hafir, hann hafi, vjer höfum, þjer hafið, þeir hafi.

Þátíð.

Jeg hefði, þú hefðir, hann hefði, vjer hefðum, þjer hefðuð, þeir hefðu.

*Boðháttur.*

Nútíð.

haf þú *og* hafðu, hafið þjer.

*Nafnháttur.*

Nútíð.

að hafa.

*Hluttaksorð nútíðar.*

hafandi.

*Hluttaksorð þátíðar.*

hafður, höfð, haft.

*Sagnbót.*

haft.

**Að vera.**

*Framsöguháttur.*

Nútíð.

Jeg er, þú ert, hann er, vjer erum, þjer eruð, þeir eru.

Þátíð.

Jeg var, þú varst, hann var, vjer vorum, þjer voruð, þeir voru.

*Viðtengingarháttur.*

Nútíð.

Jeg sje, þú sjert, hann sje, vjer sjeum, þjer sjeuð, þeir sjeu.

Þátíð.

Jeg væri, þú værir, hann væri, vjer værum, þjer væruð, þeir væru.

*Boðháttur.*

Nútíð.

ver þú *og* vertu, verið þjer.

*Nafnháttur.*

Nútíð.

að vera.

*Hluttaksorð nútíðar.*

verandi.

*Sagnbót.*

verið.

**Munu.**

*Framsöguháttur.*

Nútíð.

Jeg mun, þú munt, hann mun, vjer munum, þjer munuð, þeir munu.

Þátíð.

Jeg mundi, þú mundir, hann mundi, vjer mund-

*Viðtengingarháttar.*

Nútíð.

Jeg muni, þú munir, hann muni, vjer munum, þjer munið, þeir muni.

Þátíð.

Þátíðin er eins og í framsöguh. einnig með hljóð-

um, þjer munduð, þeir mundu.

breytingu, t. d. jeg myndi, þú myndir, o. s. frv.

*Boðháttur*

er ekki til.

*Nafnháttur.*

Nútíð: munu.
Þátíð: mundu.

*Hluttaksorð nútíðar.*
munandi.

*Hluttaksorð þátíðar og sagnbót*
eru ekki til.

Nú skulu sýndar samsettar tíðir af sögninni kalla.

*Áhrifsmynd.* Jeg hef kallað, jeg hafði kallað, jeg mun kalla, jeg mun hafa kallað. Jeg hafi kallað, jeg hefði kallað, jeg muni kalla, jeg muni hafa kallað, jeg mundi kalla, jeg mundi hafa kallað. Að hafa kallað, munu kalla, munu hafa kallað, mundu kalla, mundu hafa kallað.

*Miðmynd.* Jeg hef kallast, jeg hafði kallast o. s. frv.

*Þolmynd.* Jeg er kallaður, jeg var kallaður, jeg hef verið kallaður, jeg hafði verið kallaður, jeg mun vera kallaður, jeg mun hafa verið kallaður. Jeg sje kallaður, o. s. frv. Ver þú eða vertu kallaður. Að vera kallaður, o. s. frv.

Ath. Þess ber vandlega að gæta, að fyrsta persóna fleirt. í nútíð og þátíð framsöguháttar og viðtengingarháttar í miðmynd endar á *umst*, en ekki *ustum*, þannig: vjer *köllumst*, vjer *finnumst*, vjer *kölluðumst*, vjer *fundumst*, vjer *fyndumst* (ekki, vjer köllustum, finnustum, kölluðustum, o. s. frv.)

Nokkrar myndir einkenna sögnina fremur en aðrar myndir hennar, og má af þeim finna hinar myndirnar. Þær kallast *kennimyndir* sagna. Kennimyndir veikra sagna eru *nútíð nafnháttar*, *þátíð framsöguháttar* og *hluttaksorð þátíðar*, t. d, *skrifa*, *skrifaði*, *skrifaður*, kennimyndir sterkra sagna eru hinar sömu, nema hvað þá er tekin fleirtala þátíðar framsöguháttar með, t. d. *gefa*, *gaf*, *gáfum*, *gefinn*. Þegar segja skal, hvernig sögn „gangi", þá eru nefndar þessar þrjár tíðir: nútíð nafnháttar, þátíð og núliðin tíð framsöguháttar, t. d. *kalla*, *kallaði*, *hef kallað*; *sækja*, *sótti*, *hef sótt*; *gefa*, *gaf*, *hef gefið*; *taka*, *tók*, *hef tekið*.

Ath. Þriðja persóna fleirt. í nútíð framsöguháttar er ávallt eins og nútíð nafnháttar, t. d. að *skrifa*, þeir *skrifa*, að *fara*, þeir *fara*. Í veikum sögnum, sem enda á *aði* í þátíð framsöguháttar, er þátíð viðtengingarháttar og framsöguháttar ávallt eins, t. d. jeg *skrifaði* (framsöguh.) honum aptur og aptur, en fjekk aldrei svar; þótt jeg *skrifaði* (viðtengingarh.) honum aptur og aptur, fjekk jeg aldrei svar. En þegar þátíð framsöguháttar endar á **ði di ti**, breytist venjulega hljóðstafur stofnsins, þegar hann getur fengið hljóðbreytingu, t. d. þorði, *þyrði*, undi, *yndi*, vakti, *vekti*, af *þora*, *una*, *vaka*. I sterkum sögnum myndast þátíð viðtengingarháttar af fleirt. þátíðar framsöguháttar, t. d. *fyndi* af *fundum*, *brynni* af *brunnum*.

Tíu sagnir, er ganga eftir veiku beygingunni, eru sjerstaklega óreglulegar að því leyti, að þær mynda nútíð framsöguháttar, eins og sterkar sagnir mynda þátíð. Þær kallast því **núþálegar sagnir**

(*verba præteritopræsentia*). Þær eru: *unna, kunna, muna, munu* og *skulu, eiga, mega, þurfa, vita* og að nokkru leyti sögnin *vilja*[1]), nútíð framsöguháttar: jeg *ann, kann, man, mun, skal, á, má, þarf, veit, vil.* Af *munu* og *skulu* er ekki til hluttaksorð þátíðar, og ekki heldur sagnbót. (sbr. bls. 46).

Ath. 1. Sagnirnar *meta, ráða, rjóða* og *unna* eru einatt beygðar rangt. Hér skal því sýna hina rjettu beygingu þeirra í þessum myndum: nútíð nafnháttar, nútíð, þátíð og núliðinni tíð framsöguháttar. *Meta* beygist sem *lesa, ráða* sem *láta, rjóða* (bera á, núa á) sem *bjóða, unna* sem *kunna,* en hefur þó að auki sagnbótina *unnt.* Að *meta,* jeg *met,* jeg *mat,* vjer *mátum* (ekki *matti, möttum*), *hef metið.* Að *ráða,* jeg *ræð,* jeg *rjeð* (ekki *rjeði*), vjer *rjeðum, hef ráðið.* Að *rjóða,* jeg *rýð,* jeg *rauð,* vjer *ruðum* (ekki *rjóðaði, rjóðuðum*), *hef roðið.* Að *unna,* jeg *ann,* jeg *unni,* vjer *unnum, hef unnað* og *unnt.* Þátíð viðtengingarháttar af þessum sögnum er: jeg *mæti,* vjer *mætum* (ekki *metti, mettum*), *rjeði, rjeðum, ryði, ryðum, ynni, ynnum.* Þátíð jeg *unnti* fyrir *unni* kemur fyrir á stöku stað í fornritum, en þykir ófögur mynd, og skal því forðast hana. Í tali er *jeg unni* stundum haft sem nútíð framsöguháttar, og þá sagt: *jeg unni, þú unnir, hann unnir,* en það er rangmæli, því *jeg unni*

---

1) Til þess að eiga hægra með að muna þessar sagnir, er gott að kunna þessa vísu:

*Unna, kunna, muna, má,*
*munu, eiga, skulu,*
*þurfa, vilja, vit* hér þá,
vissra sagna þulu.

er þátíð, en nútíðin er *jeg ann, þú annt, hann ann*; aptur á móti er nútíð viðtengingarháttar *jeg unni, þú unnir, hann unni, vjer unnum*, o. s. frv.

Ath. 2. Eins og áður er getið, er ekki til sagnbót af *munu* og *skulu*; fyrir því er málleysa að segja t. d. *Jeg hefði skulað koma*, fyrir *jeg skyldi hafa komið*. Í tali eru myndirnar *muni* og *skuli*, *mundi* og *skyldi* (frá viðtengingarhætti) hafðar sem nafnháttar tíðir, t. d. Hann segist *muni (skuli)* koma á morgun; hann sagðist *mundi* (*skyldi*) koma á morgun, en í ritmáli eru tíðast hafðar hinar eldri myndir *munu, skulu*, o. s. frv. Sögnin *hyggja* (álíta) gekk þannig: *hyggja, hugði, hef hugað*, en nú er *hugað* nær eingöngu haft sem sagnbót af sögninni *huga*, sem helst er höfð í talshættinum *að huga að einhverju*, sama sem *að gá að* einhverju.

Ath. 3. Ýmsar sagnir, er áður höfðu sterka beygingu, hafa nú veika, t. d. *bjarga, barg, burgum, hef borgið*, nú *bjarga, bjargaði, hef bjargað; snerta, snart, snurtum, hef snortið*, nú *snerta, snerti, hef snert; þiggja, þá, þágum, hef þegið*, nú einnig *þáði, hef þáð; gala, gól, gólum, hef galið*, nú *gala, galaði, hef galað*.

Ath. 4. Sagnir skiptast eptir beygingu sinni í ýmsa flokka, veikar sagnir í fjóra, en sterkar í sex, en að fara frekar út í það mál, álítum vjer of þungt fyrir þá, sem þessi bók er ætluð.

Til eru sjerstakar tegundir sagna, sem kallast *miðmyndarsagnir* og *ópersónulegar sagnir*. **Miðmyndarsagnir** (*verba deponentia*) kallast þær sagnir, sem einungis eru til í miðmynd, en hafa áhrifsmyndarmerkingu, t. d. að *annast*, að *óttast*, að *ólmast*, að *ferðast*. Eins og dæmin sýna, geta miðmyndarsagn-

ir bæði verið áhrifssagnir og áhrifslausar sagnir. **Ópersónulegar sagnir** (*verba impersonalia*) kallast þær sagnir, sem einungis eru hafðar í þriðju persónu, t. d. það *rignir*, það *snjóar*, mig *syfjar*, mig *dreymir*.

Finn sterkar og veikar sagnir í eptirfarandi sögu, og seg, hvernig þær ganga.

Enskur varningsmaður var einu sinni á ferð á Indlandi, og átti leið meðfram skógi einum. Sól var í hádegisstað, og þareð varningsmaðurinn var ákaflega þreyttur, nam hann staðar til að hvíla sig, tók nátthúfu upp úr einum kassa sínum, og lagðist til svefns í forsælu við trje eitt. Jafnskjótt sem hann var sofnaður, kom fjöldi apa út úr skóginum; þeir settust að kassanum, sem fullur var af nátthúfum, og þegar varningsmaðurinn vaknaði, sjer hann yfir fimmtíu apa uppi í trjánum alla með hvítar nátthúfur á höfðinu. Í fyrstunni hló hann dátt að þessu, en svo fann hann til þess, að þetta var talsverður skaði fyrir hann að missa allar nátthúfurnar, og það þótti honum, sem geta má nærri, allt annað en gott. Þá bar þar að innlendan mann, og hann gat gefið ráð, sem dugði. Það var að fara í húfukast, varningssalinn skyldi kasta húfunni til hans, og hann aptur til varningssalans, og jafnskjótt sem þeir byrjuðu á þessu, hófst sami leikur með öpunum uppi í trjánum. Allt í einu kastaði Indverjinn húfunni af öllu afli ofan á jörðina, og í sama vetfangi komu allar húfurnar eins og skæðadrífa ofan úr

trjánum. Varningsmaðurinn þurfti svo ekki annað en að tína þær upp, og fekk þannig eign sína aptur, því aparnir þorðu ekki að yfirgefa trjen.

---

## 9. Atviksorð, forsetningar og samtengingar.

### A. Atviksorð.

Fjöldi atviksorða myndast af lýsingarorðum með endingunni **a**, t. d. *víða* af *víður*, *fallega* af *fallegur*. Atviksorð eru, eins og áður er sagt, óbeygjanleg, og breytast því ekki, nema hvað sum þeirra hafa stigbreytingu; þannig öll þau, sem komin eru af lýsingarorðum, sem stigbreytast, t. d. *víða*, *víðar*, *víðast*; *fallega*, *fallegar*, *fallegast*.

Atviksorð stigbreytast ýmist með því, að bæta við endingunum **ar** og **ast**, t. d. *fallega*, *fallegar*, *fallegast*; *glaðlega*, *glaðlegar*, *glaðlegast*, eða með því að bæta við endingunum **ur** og **st**, t. d. *lengi*, *lengur*, *lengst*; stundum er hvorugkynsmynd lýsingarorða höfð að atviksorði, og helst þá hvorugkynsmyndin í stigbreytingunni, nema hvað endastafurinn **a** í miðstigi fellur stundum burt, t. d. *fljótt*, *fljótara og fljótar*, *fljótast*; *langt*, *lengra*, *lengst*.

Nokkur atviksorð mynda miðstig og yfirstig af öðrum stofni en frumstigið, og eru þannig óregluleg.

| | | |
|---|---|---|
| vel | betur | best, |
| illa | ver | verst, |

| | | |
|---|---|---|
| lítið | minna | minnst, |
| lítt | miður | minnst, |
| mjög | meir | mest, |
| gjarnan | heldur | helst, |

Ath. Nokkur atviksorð eru mynduð af sama stofni sem lýsingarorð þau, er einungis eru til í miðstigi og yfirstigi (sjá bls. 23), en flest slík atviksorð eru til í öllum þremur stigum, og sum hafa tvöfalda stigbreyting, s. s. *aptur*, *aptar*, *aptast; fram, framar* og *fremur*, *fremst; fyr*, *fyrst; ofar, efst; inni innar innst; úti utar yst; síðar síðast; síður síst; síð*, frumstig, sama sem *seint* er haft í talshættinum *ár og síð* sama sem *seint og snemma.*

Atviksorðin skiftast eptir eðli sínu í 9 flokka.

1. Tíðaratviksorð, *nú, þá, opt, lengi, stundum, ávallt, aldrei.*
2. Staðaratviksorð, *heim, heima, út, úti, inn, inni; hjer, þar, hvar; hjeðan, þaðan, hvaðan; hingað, þangað, hvert.*
3. Háttaratviksorð, *vel, illa, hvernig, þannig, svona.*
4. Stigsatviksorð, *svo, mjög, alveg.*
5. Orsakaratviksorð, *þessvegna, hversvegna, hví.*
6. Gagnstœðisatviksorð, *þó, samt, annars, hinsvegar.*
7. Játandi atviksorð, *já, jú, sannlega, vissulega, reyndar, raunar.*
8. Neitandi atviksorð, *nei, eigi, ekki, varla.*
9. Töluatviksorð, *tvisvar, þrisvar, tvívegis, þrívegis.*

## B. Forsetningar.

Forsetningar geta staðið með öllum föllum nema nefnifalli, og er þá sagt, að þær stjórni þeim.

Sumar stjórna tveimur föllum, nefnilega þolf. og þáguf., t. d. hundurinn lá *undir bekknum*; gesturinn settist *á stólinn*; gesturinn sat *á stólnum*.

Forsetningar, er stjórna þolf. eru: *fram*, *gegnum*, *inn*, *niður*, *ofan*, *upp*, *út*, *um*, *kringum*.

Forsetningar, er stjórna þáguf. eru: *að*, *af*, *gegn*, *handa*, *hjá*, *mót*, *móti*, *undan*, *úr*.

Forsetningar, er stjórna bæði þolf. og þáguf., eru: *á*, *eptir*, *fyrir*, *í*, *með*, *undir*, *við*, *yfir*.

Forsetningar, er stjórna eignarf. eru: *án*, *meðal*, *milli*, *millum*, *til*, *vegna*, *sakir*, *sökum*.

Stundum er sleppt nafnorði því, er standa ætti með forsetningunni, og skoðast hún þá sem atviksorð, t. d. í setningunni: *pilturinn gekk ofan stigann* er *ofan* forsetning, en í setningunni: *pilturinn gekk ofan*, er *ofan* atviksorð. Smáorðið *að*, sem haft er með nafnhætti sagna, og kallast því nafnháttarmerki, er forsetning.

## C. Samtengingar.

Samtengingar skiptast í tvo aðalflokka, er kallast *samhliðandi* og *undirskipandi* samtengingar.

**Samhliðandi** (*kóordínerandi*) samtengingar kallast þær, sem tengja saman orð ein, eða þá setningar, er standa samsíða eða óháðar hvor annari, t. d. hann er *bæði* stór *og* sterkur; þetta hús er fallegt, *en* hitt er ljótt.

**Undirskipandi** (*súbordínerandi*) samtengingar kallast þær, sem tengja setningar þannig saman, að

önnur setningin lýtur undir hina, t. d. hann sagði, *að* pósturinn kæmi.

Samhliðandi samtengingar skiptast í þrjá flokka.

1. **Sambandstengingar** (*conjunctiones copulativæ*); þær tengja saman orð eða samsíða setningar, s. s. *og, bæði — og, hvorki — nje, ekki einungis — heldur einnig, enda;* hann neytti *hvorki* svefns *nje* matar; bókin er *ekki einungis* skemmtileg, *heldur einnig* mjög fróðleg.

2. **Greinitengingar** (sundurgreinandi samtengar, *c. disjunctivæ*); þær tákna, að ólíkt stendur á með eitthvað tvennt, eða að einu er öðruvísi varið en öðru, s. s. *eða* (eður), *ellegar, annaðhvort—eða, ýmist eða, hvort heldur — eða; sumpart — sumpart;* t. d. *annaðhvort* verðurðu að fá mjer bókina, *eða* jeg tek hana af þjer; *hvort* viltu heldur launa *eða* gefa?

3. **Gagnstæðistengingar** (*c. adversativæ*), *en, heldur;* þær tákna, að eitthvað er gagnstætt einhverju öðru, t. d. drengurinn les, *en* stúlkan saumar; í gær var veðrið gott, *en* nú er það vont; pósturinn kemur ekki á morgun, *heldur* hinn daginn.

Undirskipandi samtengingar skiptast í tíu flokka.

1. **Almenn undirtenging**; svo kallast samtengarorðið *að*, því það hefir ekki neina sjálfstæða þýðing, t. d. hann sagði, *að* pósturinn kæmi; *að* pósturinn komi í dag, er alls ekki víst. Enn svo er aptur annað *að*, sem haft er með nafnhætti sagna, t. d. *að* fara, *að* koma; það er forsetning (sjá bls. 53).

2. **Tilgangstengingar** (*conjunctiones finales*), *til þess að, til að, svo að, svo;* hann tók með sjer bók,

*til að* lesa í á leiðinni; vatni er veitt á tún og engjar, *svo að* grasið spretti betur.

3. **Afleiðingartengingar** (c. *effectivæ*), *svo að*, *svo;* stormurinn æddi, *svo að* allt ætlaði um koll að keyra.

4. **Orsakartengingar** (c. *causales*), *því að*, *með því að*, *af því að*, *þareð*, *fyrst;* jeg verð að halda mjer inni, *af því að* jeg hef kvef.

5. **Skilyrðistengingar** (c. *conditionales*), *ef*, *nema*, *svo framarlega sem*; jeg kem, *ef* jeg get; jeg fer ekki, *nema* þú lánir mjer hest.

6. **Viðurkenningartengingar** (c. *concessivæ*), *þótt*, *þó að*, *þó*, *þrátt fyrir það að;* „þótt jeg kalli þrátt til þín, þú kannt ekki að heyra."

7. **Samanburðartengingar** (c. *comparativæ*), *sem*, *svo sem*, *eins og*, *því — því*, *eptir því sem*, *en*, (á eptir miðstigi, t. d. betri *en*); hann ljet, *eins og* hann væri trylltur; *því* hærra sem fuglinn flýgur, *því* minni sýnist hann.

8. **Tíðartengingar** (c. *temporales*), *þegar*, *þá er*, *er*, *sem* (sama sem *þegar*), *eptir að*, *um leið og*, *jafnskjótt sem*, *þangað til*, *þar til er*, *uns*, *á meðan*, *síðan;* allir urðu glaðir, *þegar* skipið kom; jeg beið, *þangað til* jeg var úrkula vonar um, að hann kæmi.

9. **Spyrjandi tenging** (*conjunctio interrogativa*), *hvort;* hann spurði, *hvort* skipið væri komið.

10. **Undirskipandi greinitengingar**, *hvort sem — eða;* hann kvaðst mundi koma á morgun, *hvort sem* af því verður *eða* ekki. *Hvort eða* og *hvort heldur — eða* eru ýmist samhliðandi eða undirskipandi greini-

tengingar, t. d. *hvort* ætlarðu *heldur* að kaupa þessa bók *eða* hina? mjer er sama, *hvort* þú kaupir *heldur* þessa bók *eða* hina. Mjer er sama, *hvort* hann kemur *eða* fer.

Ath. Eins og sjest af því, sem á undan er komið, eru samtengingar ýmist eitt orð eða fleiri. Þær, sem að eins eru eitt orð, kallast *einfaldar*, t. d. *og, en, eða*, þær, sem eru fleiri orð en eitt, kallast *samsettar*, t. d. *svo að, til þess að, svo framarlega sem*.

Finn atviksorð, forsetningar og samtengingar í þessari sögu.

Höfðingi einn í Parísarborg tók svartan mann í þjónustu sína, og hafði hann sumpart í vinnu heima hjá sjer og sumpart í sendiferðum. Svertinginn tók eptir því, að mönnum sem ekki höfðu sjeð hann, varð opt hverft við, er hann bar fyrir augu þeirra, og hafði hann þá stundum gaman af. Eitt kvöld var hann sendur kippkorn frá borginni, og þá sjer hann bónda einn, sem sat undir viðarrunna og grjet. Svertinginn nam staðar og spurði hann, hvað að honum gengi. Bóndinn sagði honum þá, að hann hefði selt kú sína um daginn, og verið á heimleið með peningana, en þá hefðu tveir ræningjar ráðist á sig, og rænt sig öllu. Svertinginn spyr, í hvaða átt þeir hafi haldið, og segir bóndinn honum það. Svertinginn hleypur þá af stað eins og örskot; litlu síðar kemur hann auga á ræningjana, og höfðu þeir sest niður undir trje einu, og voru að skipta með sjer peningunum. Allt í einu stendur svertinginn yfir þeim, og segir með þrumandi rödd: „Út með peningana, eða jeg tek ykkur.“ Ræningj-

arnir urðu logandi hræddir, stukku á fætur, fleygðu frá sér peningunum, og hlupu burt eins og fætur toguðu; en svertinginn hirti peningana, og færði þá eigandanum.

---

## 10. Orðmyndun.

Með tilliti til þess, hvernig orðin myndast, má skipta öllum orðum í þrjá flokka: *frumorð*, *afleidd orð* og *samsett orð*.

**Frumorð** kallast þau orð, sem ekki verða leidd af öðru orði, t. d. *auður*, *dómur*, *víður*, *spakur*, *bók*, *mynd*, *borð*.

**Afleidd orð** kallast þau orð, er mynduð eru af öðru orði með viðbót við stofn þess eða rót, og kallast sú viðbót *afleiðsluending*; stundum breytist jafnframt hljóðstafur stofnsins, t. d. *auðugur*, *dómari*, *víðátta*; *spekingur*, *bæklingur*, *dæma*.

**Samsett orð** kallast þau orð, er mynduð eru af tveimur eða fleiri sjerstökum orðum, er saman eru skeytt, t. d. *blek-bytta*, *bók-stafur*, *auð-maður*, *auð-sæll*, *göfug-lyndur*, *leið-beina*, *ráð-leggja*; *blað-síðu-tal*, *bókmennta-saga*, *ætt-jarðar-ást*.

Hin upphaflega mynd eða frumhluti orðs kallast *rót* þess. Rótin er einungis eitt atkvæði (samstafa), og er hún því ýmist sá hluti frumorðs, sem eptir verður, þegar endingin og aðrar breytingar eru felldar burt, t. d. *auð*, *dóm*, *víð*, *spak* (af *auður*,

*dómur*, *víður*, *spakur*), eða hún er fullkomið orð, t. d. *borð*, *bók*, *mynd*, *land*, og verður þá rótin sama sem frumorð. Í afleiddum orðum er rótin hin sama sem í frumorði því, er afleidda orðið er komið af, t. d. í *dæma* og *dómari* er rótin *dóm*. Í samsettum orðum eru, eins og auðvitað er, ræturnar fleiri en ein.

Bæði í íslensku og öðrum tungum eru ræturnar tiltölulega fáar, og orð þau þessvegna fá að tiltölu, sem ekki eru nema ræturnar einar. Flest orð eru því annaðhvort afleidd eða samsett. Í íslensku eru mjög margar afleiðsluendingar. Hjer skal að eins nefna nokkrar hinar almennustu.

Afleiðsluendingar karlkynsorða: *all*, *ill*, *ull*, *ari*, *ingi*, *uður*, t. d. *þumall*, *fífill*, *söðull*, *málari*, *ættingi*, *fögnuður*.

Afleiðsluendingar kvennkynsorða: *a*, *i*, *un*, *und*, *ing*, *ung*, t. d. *hella* (af *hallur* = steinn), *gleði*, *byrjun*, *vitund*, *virðing*, *sundrung*.

Afleiðsluendingar hvorugkynsorða: *i*, *erni*, *indi*, t. d. *bæli*, (af *ból*), *lýti* (af *ljótur*), *bróðerni*, *rangindi*.

Orð eru sett saman með ýmsu móti. Stundum er rót fyrra orðsins sett framan við síðara orðið, t. d. *ætt-jörð*, *blíð-lyndur*; stundum er fyrra orðið haft í eignarfalli, t. d. *ættar-fylgja*, *blíðu-læti*; stundum er staf skotið inn á milli, er þá kallast *bandstafur*, t. d. *u*; *för-u-karl*, *bekkj-u-nautur*. Atviksorð og forsetningar eru skeytt óbreytt framan við önnur orð, t. d. *burt-för*, *úti-bú*; *af-nema*, *yfir-geta*, *til-slökun*, *upp-*

*gjöf.* Auk þess eru orð samsett með ýmsum orðrótum, sem ekki eru nein sjerstök orð, en eru eingöngu hafðar sem fremri hluti samsettra orða (forskeyti, forskotsorð), t. d. *auð*, *tor*, *and*, *önd*, *mis*, *for*; *auðveldur*, *tornæmur*, *andvirði*, *öndverður*, *misskilja*, *forfaðir*.

Finn frumorð, afleidd orð og samsett orð í eptirfarandi sögu.

Einu sinni sem optar var Elísabet Englandsdrottning á ferð um ríki sitt. Þá var það einhverju sinni, að borgarstjórinn í bæ einum, er hún var komin í nánd við, reið út á móti henni, og flokkur ríðandi manna með, til þess að fagna henni og fylgja inn í bæinn með tilhlýðilegri viðhöfn. Á leiðinni til baka var farið yfir læk, og þá reyndi hestur borgarstjórans aptur og aptur til að drekka, en borgarstjórinn hjelt honum aptur í hvert skipti, og varnaði honum þess. Drottningin tók eptir þessu og segir þá: „Herra borgarstjóri, lofið þjer blessaðri skepnunni að drekka.“ „Nei, nei,“ svaraði borgarstjórinn, og hneigði sig djúpt, „má jeg biðja hest yðar hátignar, að drekka fyrst.“

---

## Setningin og hlutar hennar.

**Setning** kallast það orðasamband, þegar eitthvað er sagt um mann eða hlut, t. d. *maðurinn skrifar*, *sólin skín*. Í setningum eru venjulega tveir

aðalhlutar, gjörandi og umsögn. **Gjörandi** (frumlag, *subject*) er sá maður eða hlutur, sem eitthvað er sagt um, t. d. *maðurinn*, *sólin*, í otangreindum setningum, en **umsögn** (*prædikat*) er það, sem sagt er um gjörandann, t. d. *skrifar*, *skín*.

Gjörandinn er annaðhvort nafnorð eða eitthvert annað orð, sem hafa má í staðinn fyrir nafnorð. Gjörandi getur því verið lýsingarorð, fornafn, einnig sögn í nafnhætti, t. d. *grasið* grær; þar voru *margir* saman komnir; *hann* kemur á morgun; *að ferðast* þykir mörgum skemmtilegt.

Í setningum eins og *maðurinn skrifar, sólin skín*, er sögnin ein „umsögn“ setningarinnar, en nokkrar sagnir eru þess eðlis, að þær nægja ekki, einar sjer, til að taka fram umsögnina, t. d. *vera, verða, heita*, og verða því að fá til hjálpar lýsingarorð eða nafnorð, til þess að umsögnin verði fullkomin umsögn, t. d. maðurinn *er gamall*; Grettir *var hraustmenni*; húsið *verður ágætt*; þetta verkfæri *heitir sög*. Slíkar sagnir heita **ósjálfstæðar** sagnir, og lýsingarorð það eða nafnorð, sem með þeim er haft, **umsagnarorð**.

Þegar sögnin í setningunni er áhrifssögn, þarf einatt að nefna þann hlut eða mann, sem áhrifin eða verknaðurinn kemur fram á. Þegar t. d. sagt er „maðurinn seldi“, vilja menn vita, *hvað* maðurinn seldi, t. d. maðurinn seldi *hest*. Slík viðbót, það er að segja það, sem verknaðurinn kemur fram á, er haft í þolfalli, og kallast **þolandi** (andlag,

*object).* Áhrifslausar sagnir geta ekki haft með sjer þolanda.

Sumar sagnir hafa með sjer umsagnarorð um þolandann, t. d. *kalla, álíta, gjöra;* Jón kallaði bróður sinn *hnokka;* allir álitu Bjarna *lánsaman;* Pjetur gjörði Pál *hræddan.*

Sumar sagnir, svo sem *gefa, rjetta, bjóða, færa,* o. s. frv. útheimta ekki einungis að sá hlutur sje nefndur, sem verknaður gjörandans kemur fram á, heldur einnig sá hlutur eða maður, sem verknaðurinn er gjörður fyrir. Þegar t. d. sagt er „maðurinn gaf bók," vilja menn vita, *hverjum* maðurinn gaf bók, t. d. maðurinn gaf *syni sínum* bók. Slík viðbót er höfð í þágufalli og kallast **þiggjandi.**

Þiggjandi er einnig hafður með ýmsum áhrifslausum sögnum, t. d. *mjer* líkaði það illa; *honum* heppnaðist fyrirtækið. Sumar sagnir, er hafa með sjer þiggjanda, fela í sjer verknað, en kallast þó áhrifslausar, af því þær hafa ekki með sjer þolanda, t. d. drengurinn *klappaði* hundinum; hann *klóraði* hestinum. Sumar sagnir hafa með sjer tvöfaldan þiggjanda, t. d. hann lofaði *mjer tíu krónum.*

Opt er það að umsögnin hefur ekki neinn gjöranda og kallast setningin þá **ópersónuleg,** t. d. þeim *gaf* vel alla leið; mig *dreymdi* kynlegan draum í nótt.

Af hinum ýmsu föllum er nefnifall sjálfstætt eitt útaf fyrir sig, og kallast því **höfuðfall** (sjálfstætt fall, *casus rectus),* en hin þrjú þurfa að standa með öðrum orðum, til þess að hugsun sje í þeim, og kallast því **aukaföll** (ósjálfstæð föll, *casus obliqui*).

Gjörandinn er ávallt hafður í nefnifalli nema í nafnhætti sagna; þar er hann hafður í þolfalli, t. d. jeg sá *hestinn* hlaupa; jeg heyrði *hundinn* gelta. Þegar áhrifsmyndar-setningu er snúið í þolmyndar-setningu verður þolandinn að gjöranda, t. d. Helgi magri nam *Eyjafjörð*, *Eyjafjörður* var numinn af Helga magra.

Þágufall er opt haft til að tákna, á hvern hátt eða með hverju verknaðurinn er gjörður, en sleppt forsetningunni *með*, t. d. Kassinn var prýddur *gulli* og *gimsteinum;* hann hjó *báðum höndum;* sveinninn var *vatni* ausinn (þ. e. skírður); Pétur talaði til Páls *hörðum orðum;* hann tók mér *tveim höndum*. Þágufall er ennfremur haft með miðstigi lýsingarorða og atviksorða og fellur þá burt samtengingin *en*, t. d. „á Gimli er salur *sólu* fegri“; dyggð er *gulli* dýrmætari; hann var *jafnöldrum sínum* fremri í flestum greinum; þetta skip siglir *flestum skipum* betur. Þágufall er einnig haft með miðstigi í málsákvörðunum og til að tákna samanburð, t. d. *þrem álnum* lengri, *tveim árum* eldri; *því* hærra sem fuglinn flýgur, *því* minni sýnist hann. Hjer er rangt að segja *þess* hærra . . . . *þess* minni, því eignarfall er ekki haft með miðstigi; slíkt er að eins afbökun úr dönsku (desto höjere, desto mindre).

Í eignarfalli er það orð haft, sem táknar eiganda einhvers eða þann, sem eitthvað er kennt við eða sprottið frá, t. d. bók *drengsins*, ræða *mannsins*, blöð *trjesins*, ólga *hafsins*, þytur *vindsins;* þetta er reiðhestur *prestsins*, hvar er orf *kaupamannsins*. Eign-

arfall er haft með yfirstigi lýsingarorða og atviksorða, t. d. *manna* best; þessi maður glímir *allra manna* snarpast og fimlegast; Englendingar stunda verslun *manna* mest. Eignarfall er einnig haft með nafnorðum sem tákna fjölda, t. d. tuttugu álnir *vaðmála*, sama sem tuttugu álnir af vaðmáli. Í málsákvörðunum er eignarfall haft með frumstigi lýsingarorða, t. d. *þriggja álna* hár, *fjögra faðma* langur, *tveggja ára* gamall. Í íslensku er eignarfallið venjulega haft á eptir orði því, er það stjórnast af.

Nafnorð, lýsingarorð og hluttaksorð eru opt höfð til frekari skýringar á undanfarandi nafnorði og kallast þá **viðurlag** *(apposition)*, t. d. Ingólfur *Arnarson* flutti fyrstur manna búferlum til Íslands; Haraldur hárfagri, *sonur Hálfdanar svarta*, lagði undir sig allan Noreg; jeg hef lengi ekki sjeð þá bræður, *Pjetur* og *Pál*; vinur minn hefur lengi legið *veikur*; hann var að reika *iðjulaus* allan daginn; hann er það, sem hann hefur ávallt verið, bæði *kappsamur* og *duglegur*; hann bjó lengi í því hjeraði, *vel metinn* af öllum; þessi maður er jafnsnjall í öllu, *bóklegum fræðum sem líkamlegum íþróttum*; lengur get jeg ekki verið að bíða hans, *slóðans þess arna*. Eins og sjest af dæmunum, stendur viðurlagið ávallt í sama falli sem orð það, er það er skýring á.

Í almennu frásögumáli er greininum opt sleppt, þótt átt sje við eitthvað ákveðið, t. d. í upphafi skapaði guð *himin* og *jörð* (fyrir: himininn og jörðina); *húsfreyja* kom til dyra, og kvað *bónda* eigi heima. Greinirinn er stundum settur við eiginnöfn,

t. d. hvað líður *Ölfusárbrúnni*; jeg kem utan úr *Hríseynni*; stundum er greinirinn skeyttur við mannanöfn í fleirtölu, en aldrei í eintölu, t. d. þarna koma báðir *Bjarnarnir*; annarhvor ykkar *Árnanna* verður að sækja hestinn.

Þegar lýsingarorð stendur með nafnorði, kallast það **einkunnarorð** *(attribút)*, t. d. *góður* maður, *lítill* drengur, hið *gamla* hús, Grettir *sterki*, Sæmundur *fróði*. Fornöfn og hluttaksorð standa einnig með nafnorðum sem einkunnarorð, t. d. hjer hefur *enginn* maður verið; jeg kom heim með *nokkrar* kindur; þetta er *vel smíðað* hús; þarna liggur *sofandi* barn; sveltur *sitjandi* lóa, en *fljúgandi* fær; *töluð* orð verða ekki aptur tekin. Um lýsingarorð sem umsagnarorð og viðurlag er áður talað. Lýsingarorð eru stundum höfð sjerstök eða með nafnorðseðli, t. d. *hið fagra*, *hið góða*, allt sat við *hið gamla*; *hinn góði* varast að gjöra nokkuð illt; *hinn ágjarni* verður aldrei ánægður; sælir eru *hreinhjartaðir*. Í vönduðu máli eru lýsingarorð þó eigi höfð þannig nema í hvorugkyni. Í staðinn fyrir *hinn góði*, *hinn ágjarni* er betra mál að segja: *góður maður*, *ágjarn maður*.

Forsetning með orði því, er hún stjórnar, kallast **forsetningarliður**, og undirskipandi samtenging með orði því, er hún tengir við hinn hluta setningarinnar, **samtengingarliður**, t. d. hundurinn liggur *á gólfinu*, stóllinn stendur *við gluggann*; foringinn barðist *sem hetja*, Páll er sterkari *en bróðir hans*, hann er syndur *eins og selur*, þennan skáp hefir enginn smíðað *nema hann bróðir þinn*.

Finn gjöranda, umsögn, ósjálfstæðar sagnir, umsagnarorð, þolanda, viðurlag, forsetningarlið og samtengingarlið í eptirfarandi sögu.

Tveir málarar, snillingar miklir, sömdu með sjer, að þeir skyldu mála sitt málverkið hvor, til þess að sjá, hvor væri betri málari. Annar málaði vínviðargrein með vínberjum á, hengdi svo málverkið upp á húsvegg, og þá komu fuglar fljúgandi, til að tína berin, svo náttúrlega var vínberjaklasinn málaður. Nú var hinn málarinn spurður, hvar hans málverk væri. „Gjörið svo vel að ganga hjerna inn í húsið," sagði hann. Þar var ekkert sjerstaklega merkilegt að sjá nema tjald, sem, að því er virtist, hjekk fyrir einum veggnum. „Málverkið mun vera bakvið tjaldið að tarna[1])," segir þá hinn málarinn, „en þú verður þá að draga það frá." „Þú gjörir ef til vill svo vel, að draga það frá fyrir mig," svaraði hinn brosandi. „Það get jeg gjarnan gjört," svaraði fyrri málarinn, og ætlar að kippa tjaldinu frá, en grípur þá í beinharðan vegginn, því hann var svona málaður. Þá játuðu allir, sem við voru staddir, að þetta síðara málverk væri betra, þar sem þá einnig málari, sem sjálfur var snillingur, hafði auk annara villst á því.

---

## 12. Höfuðsetning og aukasetning.

Setningarnar skiptast í tvo aðalflokka, *höfuðsetningar* og *aukasetningar*.

---

[1]) *Tarna* (og *arna*) = þarna, *að tarna* = það þarna, þetta hjerna.

**Höfuðsetning** er sjálfstæð setning, er segir fulla hugsun, ein út af fyrir sig, t. d. *sólin skín; það er hlýtt.*

**Aukasetning** getur ekki staðið ein sjer, en verður að tengjast við höfuðsetningu, t. d. það er hlýtt úti, *þegar sólin skín*; ekki er ráð, *nema í tíma sje tekið*. Aukasetningin er venjulega höfð á eptir höfuðsetningu þeirri, er hún er bundin við, t. d. allir urðu fegnir, *þegar óveðrinu slotaði*, en aukasetningin getur einnig bæði hjer og optar staðið á undan höfuðsetningunni, og kallast höfuðsetningin þá *eptirsetning*, t. d. *þegar óveðrinu slotaði*, urðu allir fegnir; *fyrst pilturinn kemur ekki*, þá verð jeg að senda eptir honum; stundum er aukasetning sett inn í höfuðsetningu, t. d. þeim, *sem ekki fer fram*, fer aftur.

Höfuðsetning er ýmist frásegjandi, t. d. *maðurinn kemur*, eða spyrjandi, t. d. *kemur maðurinn?* eða bjóðandi, *komdu, drengur minn*, eða óskandi, t. d. *blómgist Ísland.* Spyrjandi höfuðsetning byrjar einatt með spurningarorðunum *ætli* eða *skyldi*, t. d. *ætli hann komi í dag? Skyldi hann fara á morgun?* einnig með öðrum spyrjandi orðum, t. d. *hver er þar? hvað heitir þú? hvar áttu heima? hve nær kemurðu aptur? hvort viltu heldur launa eða gefa?*

Aukasetningar eru þrenns konar, 1. *tilvísunar-aukasetningar*, 2. *spyrjandi aukasetningar* eða óbeinar spyrjandi setningar, 3. *tengiaukasetningar* (samtenginga-aukasetningar).

**Tilvísunar-aukasetningar**, tengjast við höfuð-

setninguna með tilvísunarorðum, *sem*, *er*, *þar sem*, t. d. það er maður úti, *sem vill finna þig*; sá, *er ekki vill vinna*, á ekki heldur mat að fá; Árni bjó, *þar sem faðir hans hafði búið.*

**Spyrjandi aukasetningar** tengjast við höfuðsetninguna með spyrjandi orði, t. d. það er opt erfitt að segja, *hver hefur rjett;* hann spurði mig, *hvar jeg hefði verið.* Spyrjandi aukasetning, sem byrjar með spurnarorðinu *hvort*, er tengiaukasetning, því *hvort* er samtenging, t. d. hann spurði mig, *hvort jeg gæti komið í dag.*

*Tengiaukasetningar* skiptast í 10 flokka, er nú skal greina.

1. **Almennar undirtengisetningar.** Svo kallast þær setningar, er tengjast við höfuðsetninguna með hinni almennu undirtengingu *að*, t. d. það er alls ekki víst, *að skipið komi á morgun;* hann sagði *að pósturinn væri kominn*, hann er svo glíminn, *að enginn getur fellt hann;* „gerðu eigi þann óvinafagnað, *að þú rjúfir sætt þína;*“ Kolskeggur efaðist ekki um, *að Gunnar mundi bíða bana.*

2. **Tilgangssetningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með tilgangs-tengingum, t. d. menn borða, *til að geta lifað;* „heiðra föður þinn og móður, *svo að þjer vegni vel;*“ bóndi ljet dreifa heyinu, *til þess að það þornaði.*

3. **Afleiðingarsetningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með afleiðingartengingu, t. d. fljótið óx dag frá degi, *svo að láglendið varð að lokum allt undir*

*vatni;* hann kom ekki á ákveðnum tíma, *svo ekkert gat orðið úr fyrirætlun hans.*

4. **Orsakarsetningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með orsakartengingu, t. d. jeg fór í kápu, *af því að veðrið var svo kalt;* jeg get ekki lesið, *því mjer er íllt í augunum; fyrst þú hefur lofað að koma,* þá verðurðu að gjöra það.

5. **Skilyrðissetningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með skilyrðistengingum, t. d. *ef jeg man rjett,* hef jeg sjeð þig einhvern tíma áður; hann fer að búa, *svo framarlega sem hann getur fengið jörð.*

6. **Viðurkennandi setningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með viðurkenningartengingum, t. d. drengurinn gat ekki náð hestinum, *þótt hann elti hann ákaflega lengi.*

Ath. Aukasetningar, sem byrja með *hver, hvað, hvar, hvaðan,* o. s. frv. með *sem* á eptir, hafa einnig viðurkennandi þýðingu, t. d. gull er gull, *hvar svo sem það finnst;* þetta er vel smíðað, *hver sem það hefur gjört;* þiggið góð ráð, *hvaðan sem þau koma.*

7. **Samanburðarsetningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með samanburðartengingum, t. d. *eins og maðurinn sáir,* svo mun hann uppskera; mjer finnst þú miklu sterkari nú, *en þú hefur verið; því hærra sem fuglinn flýgur,* því minni sýnist hann; hann glímdi, *sem hann var maður til.*

8. **Tíðarsetningar**; þær tengjast við höfuðsetningu með tíðartengingum, t. d. það er seint að byrgja brunninn, *þegar barnið er dottið ofan í;* sláðu

túnið, *meðan rekjan er;* þú gjörir svo vel að bíða, *þangað til jeg kem.*

9. **Spyrjandi undirtengisetningar**; svo kallast þær setningar, sem tengjast við höfuðsetningu með spurnartengingunni *hvort*, t. d. hann vissi ekki, *hvort hann gæti komið í dag;* hann kvaðst ekki geta sagt þá þegar, *hvort hann vildi kaupa þennan hest.*

10. **Óbeinar greinitengisetningar**; svo kallast þær setningar, sem tengjast við höfuðsetningu með greinitengingunum *hvort — eða, hvort heldur — eða* og *hvort sem — eða*, t. d., hann veit ekki, *hvort hann á að kaupa þennan hest eða hinn;* hann var lengi að hugsa um, *hvort hann ætti heldur að taka þessa jörð eða hina;* hann neitaði að gefa kost á sjer til þingmennsku, *hvort sem það hefir verið alvara hans eða ekki.*

Þegar tvær eða fleiri setningar eru samtengdar þannig, að báðar eða allar eru höfuðsetningar, eða þá báðar eða allar aukasetningar, kallast þær **samsíða setningar**; þær eru tengdar saman með samhliðandi samtengingum, en standa þó stundum sambandslausar, t. d. *jeg sje þig, og þú sjer mig; hann segist þekkja mig, en jeg þekki ekki hann.* Kvöldroðinn bætir, *(en)* morgunroðinn vætir. „Kvölda tekur, sest er sól, sveimar þoka um dalinn.“ Margir eru svo gjörðir, *að þeim er illa við ketti, en þykir vænt um hunda.*

Finn höfuðsetningar, aukasetningar og tegundir þeirra í eptirfarandi sögu.

Maður einn þurfti einu sinni að fara ferð eina í verslunarerindum. Hann ljet þá söðla hest sinn, stakk á sig marghleypu, af því að vegurinn þótti ekki óhultur fyrir ræningjum, og svo tók hann með sjer nokkur áríðandi skjöl og fleira, er hann hafði í tösku aptan við hnakkinn. Þvínæst lagði hann af stað, og hafði með sjer hund sinn, er var honum mjög fylgispakur.

Ferðin gekk vel, og þegar hann hafði lokið erindum sínum, snjeri hann aptur heimleiðis. Þá kom það fyrir, er hann reið eptir veginum, að hundur hans verður allt í einu ákaflega ólmur, geltir í ákafa, stekkur upp og glepsar í fæturna á honum; maðurinn litaðist um, en sá hvergi neitt tortryggilegt, hann hastaði því á hundinn, og ætlaði að halda leiðar sinnar, en hundurinn varð þá enn ólmari, hljóp fram fyrir hestinn, gelti með mestu ákefð og beit hann í fæturna. Þá varð maðurinn hræddur um, að hundurinn væri orðinn óður, hefði fengið veiki þá, sem kallast vatnshræðsla; það væri því ekki um annað að gjöra, en að drepa hann; hann greip því marghleypu sína og skaut hann, hleypti síðan af stað, til þess að heyra ekki stunur vesalings skepnunnar. Skömmu síðar kom hann að veitingahúsi; þar fór hann af baki, til að fá sjer hressingu og hvíla hest sinn. En þá sjer hann, að taska hans er horfin. Hann stekkur þegar á hestbak, og ríður allt hvað af tekur þangað, er hann hafði skotið hundinn, en hann er þar þá ekki. Maðurinn heldur þá áfram eptir blóðslóðinni, og finnur

hann þá liggjandi á veginum hjá tösku sinni. Með þeim litlu kröptum, er hundurinn hafði eptir, hafði hann dregið sig þangað, til að gæta eignar húsbónda síns. Hryggur og iðrandi beygði maðurinn sig niður að hundinum, og klappaði honum; hundurinn lypti þá lítillega upp höfðinu, sleikti hönd húsbónda síns og dó.

---

## 13. Skipun orða í setningum. Áhersla. Bundið mál.

Hin vanalega orðskipun í höfuðsetningum er sú, að gjörandinn er settur fyrst, síðan umsögnin, t. d. *maðurinn kemur; maðurinn er kominn; maðurinn er gamall.*

Í spyrjandi og bjóðandi setningum er gjörandinn settur á eptir sögninni, t. d. *kemur maðurinn, komdu hingað, drengur minn.* Í síðari setningunni er *þú*, sem felst í *komdu* gjörandi, en *drengur minn* ávarp.

Næst á eptir sögninni koma þau orð, er tiltaka hana nákvæmar, þiggjandinn, þolandinn og hinir aðrir hlutar setningarinnar, svo sem atviksorð, forsetningarliður, samtengingarliður, o. s. frv., t. d. *frændi minn gaf mjer fallega bók; hann kemur aptur eptir átta daga; ófriðurinn stóð yfir í tíu ár; svona þungan stein hefur enginn látið á heyið nema hann húsbóndi okkar.*

Stundum byrjar höfuðsetning með öðru orði en

gjörandanum, en þá kemur gjörandinn næst á eptir sögninni, og næst á eptir hjálpsögn, ef samsettar tíðir eru, t. d. *þennan mann þekki jeg ekki; sjaldan veldur einn öllu; nú fyrst skil jeg í málinu; þetta hef jeg aldrei sjeð fyr.* Þegar höfuðsetning kemur á eptir aukasetningu, er sögnin ávallt höfð á undan gjöranda, og byrjar þá höfuðsetningin (eptirsetningin) einatt með *þá*, t. d. *þegar veðrið batnar, legg jeg af stað; þegar veðrið batnar, þá* o. s. frv.

Ath. Í almennum höfuðsetningum er í frásögumáli sögnin einatt höfð fremst, og þykir það gjöra frásögnina fjörugri, t. d. *settust þeir þá um borgina.*

Í aukasetningum er samtengingarorðið sett fyrst, og hin orðin síðan í sömu röð sem í höfuðsetningunni, t. d. það fór nokkuð öðruvísi, *en hann hafði ætlað;* láttu mig vita, *þegar pósturinn kemur.* Í skilyrðissetningum er orðinu *ef* opt sleppt, og þá er sögnin sett á undan gjöranda, t. d. *vilji hann koma*, þá getur hann komið.

Í orðum hverrar tungu hafa sum atkvæði meiri áherslu en önnur, það er að segja, það er lagður dálítið meiri þungi á þau í framburði en hin, sem litla eða enga áherslu hafa. Í íslensku er ávallt áhersla á fyrsta atkvæði orða, t. d. *kominn, fullkominn, ófullkominn*, en auk hennar hafa samsett orð og öll þau orð, sem hafa fjögur eða fleiri atkvæði, aðra áherslu til, nokkru minni, á einhverju hinna síðari atkvæða, t. d. *stafkarl, stafrofskver, ættjarðarást, höfðinglegur, Grímstunguheiði, Breiðamerkursandur.* Áherslan á fyrsta atkvæði, táknuð hjer með —,

kallast aðal-áhersla, en hin, táknuð með ≚, auka-áhersla.

Í setningunni: „Friðþjófur tefldi við taflborð,“ hafa orðin sömu röð, sem vanaleg er í óbundnu máli *(prosa)*. En orðunum má einnig raða á þennan hátt:

Friðþjófur við taflborð tefldi,

og þá er orðunum raðað þannig, að atkvæði með áherslu og atkvæði, sem enga áherslu hafa, skiptast á eptir fastri reglu. Þegar orðum er þannig skipað, framkemur **bundið mál** kveðskapur *(poësi)*. Hin einkennilega hreyfing eða fall málsins, sem framkemur við þessi reglubundnu skipti áherslu-atkvæða og áherslulausra, kallast **hljóðfall** *(rhythmus)*. Í kveðskap kallast þau atkvæði *löng*, sem áhersla er á, hin *stutt*. Að atkvæði sje langt er táknað með með stryki —, en að það sje stutt með boga ◡.

Hvert vers eða vísa skiptist í sjerstaka vissa parta, braglínur eða ljóðlínur, sem í nútíðarmáli kallast venjulega *hendingar*. Braglínan skiptist svo aptur í vissa parta, sem kallast **bragliðir**.

Ath. Í fornmálinu var braglínan kölluð *vísuorð*, en hendingar þau atkvæði, sem höfðu sama eða ólíkan hljóðstaf með sama eða sömu samhljóðendum á eptir, t. d. *Út rjeri einn á báti* | *Ingjaldur í skinnfeldi*, hjer eru *út . . . bát* og *gjald . . . feld* hendingar. Hendingar voru þannig eins konar rím. Ef sami hljóðstafur var í báðum atkvæðunum, kallaðist hendingin *aðalhending*, en væri hann ekki hinn sami, *skothending*, t. d. *Stóðum við tvö í túni*, | *tók lín um mik sínum*,

*stóð* . . . *við* er skothending, en *lín* . . . *sín* aðalhending. (*Lín* sama sem *kona*).

Helstu bragliðir eru:

1. **Rjettur tvíliður** *(trochæus)*; hann hefur tvö atkvæði, hið fyrra langt, hið síðara stutt, — ⌣, t. d. *faðir*, *bróðir*.

2. **Öfugur tvíliður** *(jambus)*; hann hefur tvö atkvæði, stutt og langt, ⌣ —, t. d. *í dag*, *í gær*. Í íslensku er ekkert orð með slíkri áherslu.

3. **Rjettur þríliður** *(dactylus)*; hann hefur þrjú atkvæði, eitt langt og tvö stutt, — ⌣ ⌣, t. d. *höfðingi*, *húsbóndi*.

4. **Öfugur þríliður** *(anapæstus)*; hann hefur þrjú atkvæði, tvö stutt og eitt langt, ⌣ ⌣ —, t. d. *hjer er bók*, *það er logn* (með áherslunni á *bók* og *logn*). Í íslensku hefur ekkert orð slíka áherslu.

5. **Langur tvíliður** *(spondeus)*; hann hefur tvö atkvæði, bæði löng, — —. Hann er einatt hafður í kveðskap fyrir rjettan eða öfugan þrílið, og kemur þá eitt atkvæði langt fyrir tvö stutt.

Ath. Hin útlendu nöfn á bragliðunum eru komin úr grísku. *Trochæus* (frb. trokkeus) þýðir hlaupandi (þ. e. hlaupandi liður); bragliður, er samanstóð af löngu og stuttu atkvæði var nefndur svo, af því hann þótti falla svo náttúrlega fram af tungunni. *Jambus* þýðir ekki annað en stuttlangur bragliður. *Dactylus* þýðir fingur; bragliður með einu löngu og tveim stuttum atkvæðum var nefndur svo, af því að í fingri er fyrsti liður frá hnúanum nokkuð langur, en hinir tveir styttri. *Anapæstus* (frb. anapestus) þýðir sleginn til baka, öf-

ugur, það er: öfugur dactylus. Orðið *spondeus* er komið af gríska orðinu *sponde*, er þýðir dreypifórn; spondeus þýðir því dreypifórnarlegur (þ. e. dreypifórnarlegur liður). Við dreypifórnir hjá Grikkjum, sem voru innifaldar í því, að víni var hellt á blótstalla, í fórnareld og víðar til heiðurs guðunum, var siður að syngja söngva með ákaflega langdregnum tónum; þaraf fjekk bragliður með tveim löngum atkvæðum þetta nafn.

Samkvæmt eðli bragliðanna eru til fjórir höfuðbragarhættir. Þeir eru:

2. **Rjettur tvíliðaháttur** *(trokkeiskur háttur)*; hann samanstendur af rjettum tvíliðum.

Nú er | frost á | Fróni.

2. **Öfugur tvíliðaháttur** *(jambiskur háttur)*; hann samanstendur af öfugum tvíliðum.

Á Hild | ings garð | í grjer' | í lund.

3. **Rjettur þríliðaháttur** *(daktýliskur háttur)*; hann samanstendur af rjettum þríliðum.

Eldgamla | Ísafold.

4. **Öfugur þríliðaháttur** *(anapestiskur háttur)*; hann samanstendur af öfugum þríliðum.

Og hann sveif | yfir sæ.

Ath. Flestir bragarhættir samanstanda af tveimur tegundum bragliða, og fara þá saman rjettir tvíliðir og rjettir þríliðir, en svo aptur öfugir tvíliðir og öfugir þríliðir, t. d. lagið: „Skinfaxi | skundar | skínand' um | síðir“ er daktýliskur og trokkeiskur bragarháttur, en lagið „Eins og skjöld | ur Sví | a sjót“ er anapestiskur og jambiskur bragarháttur. Stundum er skipt um

bragarhátt einhversstaðar í lagi, svo að t. d. fyrri partur lags er jambiskur, en síðari partur trokkeiskur, t. d. „Ei gló | ir æ | á græn | um lauk | i“ (jambar), en „Guð það | hentast | heimi | fann,“ (trokkear). Í enda braglínu er einatt, eins og sjest á þessu seinasta dæmi, partur af braglið, t. d. *i* (í *lauki*) er hálfur jambus, en *fann* hálfur trokkeus. Í íslensku þykja einna best fara trokkeisk og daktýlisk sönglög, enda er íslenskan trokkeiskt og daktýliskt mál.

Þess er áður getið, að langur tvíliður geti komið í staðinn fyrir rjettan eða öfugan þrílið. Þannig er í braglínunni „Ísland | farsældar | frón“ *Ísland* langur tvíliður fyrir rjettan þrílið. Í vísunni „Nú er vetur úr bæ“, o. s. frv. er í braglínunni „en sum | arið blítt“ *en sum* langur tvíliður fyrir öfugan þrílið.

Einkennilegir fyrir íslenskan kveðskap eru hinir svonefndu hljóðstafir (ljóðstafir), sem að rjettu lagi heita *stuðlar* og *höfuðstafur*. Þeir tengja saman braglínur, tvær og tvær; fara þá venjulega saman tveir stuðlar og einn höfuðstafur, stuðlarnir í fyrri braglínunni, en höfuðstafur í hinni síðari, og standa ávallt í upphafi áhersluatkvæða t. d.

*Far* þú út í *fagran* lund,
*ferska* láttu vinda,
*um* þig leika *alla* stund,
og *öllum* doða hrinda.

Sjeu „hljóðstafirnir“ samhljóðendur, verða allir þrír að vera hinir sömu, en sjeu þeir hljóðstafir, þykir best fara að þeir sjeu ekki hinir sömu, en mega þó vera það.

Finn bragliði í eptirfarandi vísum.

Skinfaxi skundar,
skínand' um síðir
sunnan úr blíðheimi
bjartari' en fyr;
árdegis-stundar
ylgeislar fríðir
lýsa upp höll,
þá er[1]) lostið á dyr.

Nú er vetur úr bæ,
rann í sefgrænan sæ,
og þar sefur í djúpinu væra,
en sumarið blítt
kemur fagurt og frítt
meður fjörgæfa ljósinu skæra.

Ei glóir æ á grænum lauki
sú gullna dögg um morgunstund,
nje hneggjar lopt af hrossagauki,
nje hlær við sjór og brosir grund.
Guð það hentast heimi fann,
það hið blíða
blanda stríðu;
allt var gott, sem gjörði hann.

---

1) Hjer er í upphafi braglínunnar rjettur tvíliður „þá er" til uppbótar við hálfan rjettan tvílið „höll" í enda næstu braglínu á undan.

## 14. Greining setninga.

Að skýra frá orðskipun einhverrar setningar, það er að segja að sundurliða setningu í hina einstöku parta hennar, kallast að **greina** *(analýsera)* setninguna. Þartil heyrir að tiltaka, hvað sje gjörandi, og hvað umsögn, hver partur ræðunnar hvert orð í setningunni er, nefna föll og tölu, kyn, flokk og beygingu nafnorða, föll og tölu, kyn, sterka eða veika mynd og stig lýsingarorða, kyn, flokk, föll og tölu fornafna, stig atviksorða, tíð, hátt, mynd, persónu og tölu sagna, o. s. frv.

Nú skal tilfæra nokkur dæmi, til að sýna, hvernig greina skal setningar.

1. *Sólin skín.*

Gjörandi er *sólin*, umsögn *skín*.

**Sólin**, nefnif. eint. með greini, af *sól*, *sólar*, *sólir*, sterkt nafnorð, kvk. (hlutarnafn), gengur eftir 2. flokki sterku beygingarinnar, gjörandi í *skín*.

**skín**, nútíð framsöguh. í áhrifsmynd, 3. persóna eint. af *skína*, *skein*, *hef skinið*, sterk sögn, áhrifslaus sögn, umsögn.

2. *Faðir minn gaf mjer fallega bók.*

Gjörandi *faðir minn*, umsögn *gaf mjer fallega bók.*

**Faðir**, nefnif. eint. af *faðir*, *föður*, *feður*, sterkt nafnorð, kk. samnafn, (hlutarnafn), gengur eptir 3. flokki sterku beygingarinnar, er ásamt *minn* gjörandi í *gaf*.

**minn**, nefnif. eint. kk. af *minn*, *mín*, *mitt*, eignarfornafn, einkunnarorð við *faðir*.
**gaf**, þátíð framsöguh. í áhrifsmynd, 3. pers. eint. af *gefa*, *gaf*, *hef gefið*, sterk sögn, áhrifssögn.
**mjer**, þáguf. eint. af *jeg*, stjórnast af *gaf*, fornafn fyrstu persónu, þiggjandi.
**fallega**, þolf. eint. kvk. af *fallegur*, *falleg*, *fallegt*, stjórnast af *gaf*, lýsingarorð í frumstigi í sterkri mynd, einkunnarorð við *bók*.
**bók**, þolf. eint. af *bók*, *bókar*, *bækur*, stjórnast af *gaf*, sterkt nafnorð, kvk., samnafn, (hlutarnafn), gengur eptir 3. flokki sterku beygingarinnar, er ásamt *fallega* þolandi.

3. *Náðu fyrir mig hestinum, drengur minn.*

Gjörandi *þú*, sem felst í *náðu*, umsögn *ná fyrir mig hestinum.*
**Náðu**, nútíð boðh. í áhrifsmynd, 2. pers. eint. af *ná*, *náði*, *hef náð*, veik sögn, áhrifslaus, samandregið *ná þú*.
**fyrir**, forsetning, hjer með þolf.; *fyrir mig*, forsetningarliður.
**mig**, þolf. eint. af *jeg*, stjórnast af *fyrir*, fornafn fyrstu persónu.
**hestinum**, þáguf. eint. með greini af *hestur*, *hests*, *hestar*, stjórnast af *náðu*, sterkt nafnorð, kk. samnafn, (hlutarnafn), gengur eptir 1. flokki sterku beygingarinnar, þiggjandi.
**drengur**, nefnif. eint. af *drengur*, *drengs*, *drengir*, sterkt nafnorð, kk. samnafn, (hlutarnafn), gengur

eptir 2. flokki sterku beygingarinnar, er ásamt *minn* ávarp, en að öðru leyti frálaust setningunni.

**minn**, nefnif. eint. af *minn*, *mín*, *mitt*, kk. eignarfornafn, einkunnarorð við *drengur.*

4. *Ari bóndi rær opt á sjó, en fær sjaldan mikinn afla.*

Hjer er málsgrein, er samanstendur af tveim samsíða höfuðsetningum.

Fyrri setningin.

Gjörandi *Ari bóndi*, umsögn *rær opt á sjó.*

**Ari**, nefnif. eint. af *Ari*, *Ara*, veikt nafnorð, kk., eiginnafn, karlmannsnafn, (hlutarnafn), gjörandi í *rær.*

**bóndi**, nefnif. eint. af *bóndi*, *bónda*, *bændur*, veikt nafnorð, kk., samnafn, (hlutarnafn), (samandregið *búandi*), viðurlag við *Ari.*

**rær** nútíð, framsöguh. í áhrifsmynd, 3. pers. eint. af *róa*, *rjeri*, *hef róið*[1]), veik sögn, áhrifslaus sögn, óregluleg.

**opt**, atviksorð í frumstigi (tíðaratviksorð).

**á**, forsetning, stjórnar hjer þolf. *á sjó*, forsetningarliður.

**sjó**, þolf. eint. af *sjór*, stjórnast af forsetningunni *á*, sterkt nafnorð, kk., samnafn, (safnheiti), gengur eptir 2. flokki sterku beygingarinnar, hefur þrjár myndir, *sjór*, *sjár*, *sær*, eignarf. *sjóvar* (og *sjóar*), *sjávar*, *sævar;* fleirt. *sjóir* og *sæir* lítið höfð.

---

1) Samskonar óreglul. sagnir eru *gróa*, *núa*, *snúa*.

Síðari setningin.

Gjörandi *Ari bóndi*, undirskilið frá fyrri setningunni, umsögn *fær sjaldan mikinn afla.*

**en**, samhliðandi tenging (gagnstæðistenging), tengir saman setningarnar.

**fær**, nútíð framsöguh. í áhrifsmynd, 3. pers. eint. af *fá, fjekk, hef fengið*, sterk sögn, áhrifsögn, óregluleg.

**sjaldan**, atviksorð í frumstigi (tíðaratviksorð).

**mikinn**, þolf. eint., kk. af *mikill, mikil, mikið*, stjórnast af **fær**, lýsingarorð í frumstigi í sterkri mynd, einkunnarorð við *afla.*

**afla**, þolf. eint. af *afli, afla*, stjórnast af *fær*, veikt nafnorð, kk., samnafn (safnheiti), er ásamt *mikinn* þolandi.

5. *Páll er miklu sterkari en Sveinn bróðir hans, enda leggur hann flesta, pilturinn sá.*

Hjer er málsgrein, er samanstendur af tveimur samsíða höfuðsetningum.

Fyrri setningin.

Gjörandi *Páll*, umsögn *er miklu sterkari en Sveinn bróðir hans.*

**Páll**, nefnif. eint. af *Páll, Páls*, sterkt nafnorð, kk. eiginnafn, karlmannsnafn, (hlutarnafn), gengur eptir 1. flokki sterku beygingarinnar, gjörandi í *er.*

**er**, nútíð framsöguh. 3. pers. eint. af *vera, var, hef verið*, sterk sögn, áhrifslaus sögn, hjálpsögn, ósjálfstæð sögn, óregluleg.

**miklu**, þáguf. eint. hvk. af *mikill, mikil, mikið*,

stjórnast af miðstiginu *sterkari*, lýsingarorð í sterkri mynd.[1])

**sterkari**, nefnif. eint., kk. lýsingarorð í miðstigi af *sterkur*, *sterk*, *sterkt*, umsagnarorð við *er*.

**en**, undirskipandi samtenging (samanburðartenging), *en Sveinn bróðir hans* samtengingarliður.

**Sveinn**, nefnif. eint. af *Sveinn*, *Sveins*, sterkt nafnorð, kk. eiginnafn, karlmannsnafn, (hlutarnafn), gengur eptir 1. flokki sterku beygingarinnar.

**bróðir**, nefnif. eint. af *bróðir*, *bróður*, *bræður*, sterkt nafnorð, kk. samnafn, (hlutarnafn), gengur eptir 3. flokki sterku beygingarinnar, er ásamt *hans* viðurlag við *Sveinn*.

**hans**, eignarf. eint. kk. af *hann*, *hún*, *það*, stjórnast af *bróðir*, fornafn þriðju persónu, haft fyrir *Páls*.

Síðari setningin.

Gjörandi *hann*, umsögn *leggur flesta*.

**enda**, samhliðandi samtenging, (sambandstenging), tengir saman setningarnar.

**leggur**, nútíð framsöguh. í áhrifsmynd, 3. pers. eint. af *leggja*, *lagði*, *hef lagt*, veik sögn, áhrifssögn.

**hann**, nefnif. eint., kk., fornafn þriðju persónu, af *hann*, *hún*, *það* gjörandi í *leggur*, haft fyrir *Páll*.

**flesta**, þolf. fleirt., kk., lýsingarorð í yfirstigi í sterkri mynd af *margur*, stjórnast af *leggur*, þolandi.

**pilturinn**, nefnif. eint. með greini af *piltur*, *pilts*, *piltar*, sterkt nafnorð, kk., samnafn, (hlutarnafn),

---

1) *Mikið* sterkari er ekki rétt, *mikið* í því sambandi er afbökun úr dönsku (meget).

gengur eptir 1. flokki sterku beygingarinnar, er ásamt *sá* viðurlag við *hann*.

**sá**, nefnif. eint., kk., af *sá, sú, það*, ábendingarfornafn, einkunnarorð við *pilturinn*.

## Orð og setningar til að greina.

1. **Nafnorð og lýsingarorð**. Stór hestur. Lítill hundur. Svartur köttur. Grá kýr. Skjöldóttur kálfur. Jarpt folald. Flekkótt lamb. Hvít gimbur. Mórauð ær. Rautt blek. Falleg bók. Bláir sokkar. Dökkar buxur. Ljettar börur. Dimm göng. Fagurt blóm. Græn grös. Þungt lóð. Laglegir skór. Iðinn drengur. Hlýðið barn. Sljettur völlur. Þýft tún. Lágur bekkur. Hátt hús. Snotur askja. Feitur sauður. Mögur kind.

2. **Nafnorð með greini og sagnir. Gjörandi og umsögn**. Kýrin baular. Kindin jarmar. Kötturinn mjálmar. Hundurinn geltir. Hesturinn hneggjar. Hrafninn krunkar. Haninn galar. Smiðurinn smíðar. Vefarinn vefur. Grasið sprettur. Túnið grænkar. Lækurinn rennur. Vindurinn blæs. Snjórinn bráðnar. Ísinn þiðnar. Áin vex. Gjáin dýpkar. Skráin ryðgar. Sláin datt. — Ása prjónar. Anna spinnur. Árni kembir. Bjarni rær. Fuglinn syngur. Flugan suðar. Fiskurinn syndir. Klukkan slær. — Vorið kemur, kvaka fuglar, kvistir grænka, sunna hlær, ísinn þiðnar, elfar dansa, iða lækir, dunar sær.

3. **Þolandi**. Drengurinn tálgaði spýtu Stúlkan prjónaði vettlinga. Smiðurinn smíðaði stól.

Bóndinn keypti stólinn. Vinnumaðurinn sló túnið. Vinnukonan rakaði ljána. Fólkið þurkaði heyið. Hestarnir báru baggana. Kýrnar átu töðuna. Konan mjólkaði kúna. Barnið drakk mjólkina. Hundurinn beit kindina. Smalinn sló hundinn. Maðurinn skrifaði brjefið. Pilturinn las margar blaðsíður. Litla stúlkan faldaði hinn fallega klút. Húsbóndinn á fjörugan hest. Fátæki maðurinn missti góða kú. Hinn ríki maður keypti væna jörð.

4. **Ósjálfstæðar sagnir og umsagnarorð.** Borðið er kringlótt. Húsið er stórt. Grasið er grænt. Stjörnurnar eru bjartar. Akureyri er lítill bær. Reykjavík er höfuðstaður Íslands. Járnsmiðurinn heitir Árni. Hái maðurinn heitir Geir. Anna litla er iðin stúlka. Gunnar er lítill, Árni er stærri, Björn stærstur. Kristinn verður fyrstur. Steini verður mesti söngmaður. Jóhann verður besti smiður. Geiri er orðinn stór. Bræðurnir hjetu Sveinn og Helgi. Hestarnir voru styggir. Folöldin urðu gæf. Kaupamaðurinn þótti duglegur.

5. **Þiggjandi.** Sveinninn kastaði hnettinum. Stormurinn feykti heyinu. Stór hundur fylgdi gestinum. Gefðu barninu brauð. Heilsaðu manninum. Fúsi strýkur kettinum. Guðrún klappaði hundinum. Fjármaðurinn gaf kindunum hey. Guðbjörg færði gestinum mat. Geir skrifaði Guðmundi brjef. Árni fjekk Eyólfi bókina. Dóttirin líktist móðurinni. Húsbóndinn borgaði kaupmanninum peninga. Bóndinn galt vinnumanninum kaupið. Jón var Árna góður. Árni var Jóni þakklátur.

Dyggð er gulli dýrmætari. Frændur eru frændum verstir, kvað refur, sá mórauðan hund. Hugur ræður hálfum sigri.

6. **Töluorð.** Maðurinn hefur tíu fingur. Ferfættu dýrin hafa fjóra fætur. Fullorðinn maður hefur þrjátíu og tvær tennur. Bóndinn á fjórar kýr, átta hesta, hundrað fjár. Haraldur er tíu ára gamall. Ólafur er þremur árum eldri. Treyjan kostaði tólf krónur. Júní er sjötti mánuður ársins. Hinn fyrsti mánuður ársins hefur þrjátíu og einn dag. Nikulás annar er dótturson Kristjáns níunda. Presturinn er orðinn fimmtugur. Gamli maðurinn er áttræður. Tvisvar tveir eru fjórir, þrisvar fjórir tólf. Teitur á tvennan klæðnað. Anna gjörði þrenna skó. Sigríður prjónaði ferna vettlinga. Smiðurinn keypti sjö tylftir borða.

Þetta í minni þitt nú reyr, þrír komma' einn og átta' sex tveir, svo hið franska mál og met, metra breyti' í íslensk fet. (3,1862 fet í metra).

Metra í faðmi marka' á gólf, mundu hvað jeg segi, einn komma' átta átta' þrír tólf, allt þá gjört eg eygi. (1,88312 metrar í faðmi).

7. **Atviksorð.** Stúlkan gekk burt. Húsið er vel smíðað. Túnið er fjarskalega þýft. Engið er ekki sjerlega grasgefið. Komumaður heilsaði bónda vinsamlega. Drengurinn hefur opt sótt hesta. Skrifarinn skrifar mjög vel. Dúkurinn er snilldarlega ofinn. Hesturinn hljóp ákaflega hart. Smalamaður kemur sjaldan snemma heim. Hrafninn kom ekki aptur. Nú er sólin komin upp. Bráðum gengur

sólin undir. Hvar er Geiri? Geiri er þarna. Geiri er úti, inni, uppi, niðri. Drengurinn fór heim. Drengurinn er heima. Sjaldan er of varlega farið.

8. **Fornöfn.** Jeg les. Þú skrifar. Hann stendur. Hún situr. Þeir stökkva. Við komum. Þið bíðið. Þau fara. Þeim líður vel. Hvar er bókin mín. Hún er hjerna. Þetta er lítið borð. Hver er kominn? Það er kunningi minn. Hver er þarna niðri. Það er jeg. Þessi maður á fallegt hús. Hvaða hestar eru þetta? Það eru hestarnir okkar. Hve nær kemur hann faðir þinn? Hann kemur bráðum, vona jeg. Þennan stein getur enginn maður tekið upp. Barnið meiddi sig. Fáir held jeg ámæli sjálfum sjer. Sá, sem er ástundunarsamur, á lof skilið. Sjerhver maður er náungi vor. Við þekkjumst. Við þekkjum hvor annan. Hvorugur okkar þekkir hinn. Hvernig er þessu varið? Þeir heilsuðust. Þeir heilsuðu hvor öðrum. Annanhvorn þeirra bræðra hef jeg einhvern tíma sjeð, hvor þeirra sem það hefur verið. Engum er alls varnað; engum er allt gefið.

9. **Forsetningar.** Pilturinn datt af hestbaki. Ferðamaðurinn ferðaðist um landið. Hver reið heim að bænum? Jeg gekk framhjá húsinu. Skipið sigldi inn fjörðinn. Þeir riðu fram dalinn. Kindurnar hlupu upp brekkuna. Jeg legg af stað frá Reykjavík á morgun. Jeg get ekki farið í dag. Þessa bók keypti jeg handa þjer. Hann gekk heim til kunningja síns. Jeg gat ekki komið í gær vegna óveðursins. Þeir skiptu gróðanum milli sín. Hann

gekk upp á hólinn, settist svo niður uppi á honum. Hann gekk inn í húsið. Hann sat inni í húsinu. Farðu vel með hundinn; annars fer hann ekki með þjer. Þú stendur fyrir fjenu. Þú gjörir það fyrir mig. Hann flutti mig yfir ána. Uppi yfir dyrunum er mynd af æðarfugli. Jeg beið eptir þjer í tvo daga. Eptir það lagði jeg af stað. Drengurinn skaust undir borðið, faldi sig svo undir því. Sá er vinur, er í raun reynist.

Sjáleg brot eg samanstanda sje af tvennu, teljara nýtum, nú þá sjerðu, nefnarinn er að neðanverðu.

10. **Samhliðandi samtengingar.** Systir mín situr og spinnur. Bróðir minn skrifar eða les. Hesturinn minn er bæði stór og sterkur. Húsbóndinn kemur heim á morgun eða hinn daginn. Annaðhvort fer skipið í dag eða á morgun. Geiri er ýmist úti eða inni. Ísland er hvorki hveitiland nje vínland. Faðir minn er ekki heima, en hann kemur bráðum. Njáll gaf mönnum einatt góð ráð, enda var hann flestum vitrari. Friðþjófur var nefndur hinn frækni, enda var hann kappi mikill. Í dag er ekki fannkoma, heldur regn. Hann festi ekki yndi í útlöndum, heldur snjeri aptur til Íslands.

11. **Undirskipandi samtengingar.** Það er borið á túnin, til þess að þau spretti betur. Fljótið lagði, svo að það mátti ganga á ís yfir það. Hann vöknaði í fæturna, af því að skórnir hans voru götugir. Jeg kem á morgun, ef jeg get. Margur er linur, þótt hann sje langur. Eiríkur er sterkari en Árni. Það er skemtilegra, að vera lítill og sterk-

ur en stór og kraptalaus. Hann fór sem fugl flygi. Hann hamaðist, eins og hann væri ekki með öllum mjalla; síðan varð hann ljúfur eins og lamb. Gaman er, þegar fer að vora. Þú bíður, þangað til jeg kem. Jeg sá hann, um leið og hann gekk inn í húsið. Jafnskjótt sem jeg fjekk brjefið, flýtti jeg mjer af stað. Friður hjelst milli landanna, meðan þeir lifðu báðir. Hann vildi ekki þiggja hringinn, hvort sem það hefur verið í alvöru eða ekki. Hvort þykir þjer þetta betra eða hitt. Hvort fer pósturinn í dag eða á morgun? Geturðu sagt mjer, hvort pósturinn fer í dag eða á morgun. Mjer stendur á sama, hvort honum líkar betur eða ver. Hann segist ekki fara, nema þú komir með. Hann fer að búa í vor, svo framarlega sem hann getur fengið jörð. Þareð Ísland liggur svo norðarlega, spretta þar hvorki perur nje epli. Eins og við mátti búast, kom skipið ekki fyr en viku á eptir áætlun. Hann lánar engum hestinn sinn, nema hann sje sjálfur með. Þetta hefur enginn skrifað nema þú. Hann var sem þrumulostinn. Hann var í miklu áliti sem ræðumaður.

12. **Viðurlag.** Magnús snikkari hefur smíðað þetta hús. Bærinn Reykjavík stendur við sjó. Árni er bæði stærri og sterkari en Þórður bróðir hans. Þarna koma hestarnir mínir, Hrani og Skjóni. Hvernig líst þjer á klárana mína, hann Grána og hann Rauð? Honum liggur allt í augum uppi, piltinum þeim arna. Hvar er hann Haraldur, pilturinn, sem var hjerna áðan? Geir og Gunnar, yngstu bræð-

urnir, voru tvíburar. Í dögun lögðu allir af stað, sumir gangandi, en sumir ríðandi. Það er engin heima, hvorki foreldrarnir nje börnin. Hann verður það, sem hann hefur æfinlega verið, mesti óráðsmaður. Skyldi hann þá aldrei koma, þessi góði póstur. Kristjanía, höfuðborg Noregs, er langtum minni en Kaupmannahöfn. Haraldur konungur, föðurbróðir Magnúsar góða, var kallaður Haraldur harðráði.

---

## 15. Stafrofið.

Bókstafirnir fá hljóð sitt af mismunandi hreyfingu talfæranna, sem eru tunga, tönnur, gómur og varir.

Í stafrofinu (latínuleturs-stafrofi) eru 36 bókstafir. Þeir eru: a, á, b, c, d, ð, e, é, f, g, h, i, í, j, k, l, m, n, o, ó, p, q, r, s, t, u, ú, v, w, x, y, ý, z, þ, æ (œ), ö (ø).

Af þessum stöfum eru c, q og w (tvöfalt v) ekki hafðir í íslensku nú á dögum. Sumir skrifa heldur aldrei é, en í þess stað *je*; sumir skrifa ekki heldur z (setu) en ávallt *s* í hennar stað. Nú á dögum er íslenskan þannig rituð með 33 bókstöfum eða 31, ef *é* og *z* er sleppt.

Ath. Í útlendum orðum er **c** borið fram sem **s** á undan *e*, *i*, *y*, *œ*, *ö*, annars sem **k**. Um það hljóðar þessi vísa:

C fyrir framan e, æ, í,
y og ö, þess ávallt gá,
ess-hljóð hefur aðgæt því,
annars hljóðar það sem k.

T. d. *Cicero* (Síseró), *Cyrus* (Sýrus), *Cæsar* (Sesar), *cölibat* (sölibat) einlífi (það að vera ókvæntur); q er framborið sem k, og sje u á eptir, er u-ið framborið sem v, t. d. *Quintus* (kvintus), w sem v, t. d. *Wittenberg* (Vittenberg).

Bókstafirnir skiptast í **hljóðstafi** (*vocales*) og **samhljóðendur** (*consonantes*). Hljóðstafir hafa hljóð einir sjer, en samhljóðendur verða ekki bornir fram nema hljóðstafur sje með. Tveir hljóðstafir með einu hljóði kallast **tvíhljóðar** (*dipthongi*); þeir eru í íslensku **au**, **ei**, **ey**.

## A. Hljóðstafir.

1. *Eðli og ásigkomulag hljóðstafa.* Hljóðstafirnir eru annaðhvort *grannir* eða *breiðir*. **Grannir** eru: **a**, e, i, o, u, y, ö. **Breiðir** eru: á, í, ó, ú, ý, æ, og tvíhljóðarnir **au**, **ei**, **ey**.

Hljóðstafirnir geta bæði verið langir og stuttir. *Langir* kallast þeir, þegar þeir eru frambornir seint, t. d. í *fagur* er **a** langt, í *höfuð* er ö langt, en *stuttir* kallast þeir, þegar þeir er frambornir fljótt, þannig er **a** stutt í *brattur* og ö í *höfði*.

Hljóðstafirnir eru *langir*, 1. sem endastafir í áhersluatkvæðum, t. d. *hnjē*, *tā̄*, 2. á undan einföldum samhljóðanda, t. d. *dāgur*, *dūgur*, en stuttir 1. á undan tvöföldum samhljóðanda, t. d. *stŭttur*, *făttur*, og 2. optast nær á undan tveimur eða fleiri sam-

hljóðendum, er standa saman, t. d. *bjartur*, *burst*, *austri*, *vestri*, en t. d. í *akrar*, *fagrir* er a (fyrra a í *akrar*) langt; í *reyta* er **ey** langt, í *reytti* stutt. Í áherslulausum atkvæðum eru hljóðstafir ávallt stuttir.

Ath. Af því, sem nú er sagt, má sjá, að áherslu-atkvæði eru ekki ávallt löng, því þau eru stutt, þegar þau hafa stuttan hljóðstaf. Frá þessu er þó vikið í skáldskap, þar eru áherslu-atkvæði kölluð *löng*, en hin áherslulausu *stutt*, (sbr. bls. 73).

2. *Hljóðbreyting hljóðstafa.* Einn hljóðstafur breytist opt í annan, og kallast það **hljóðbreyting**. Helstu hljóðbreytingar eru: *hljóðskipti*, *hljóðvarp*, *klofning* og *hljóðbreikkun*.

**Hljóðskipti** kallast sú hljóðbreyting, þegar skipt er um hljóðstafi, eins og á sjer stað í hinni sterku beygingu sagna, t. d. *fara*, *fór*; *bíða*, *beið*; *fljúga*, *flaug*.

**Hljóðvarp** kallast sú hljóðbreyting, er einn hljóðstafur breytist í annan fyrir áhrif eptirfaranda stafs. Hljóðvarpi valda stafirnir **i** eða **j** og **u** eða **v**. Hljóðvarp er því tvenns konar, i-hljóðvarp og u-hljóðvarp.

Þau hljóðvörp, sem **i** eða **j** veldur, eru:

| | | | |
|---|---|---|---|
| a | verður | e, | vanur, venja. |
| á | — | æ, | hár, hærri. |
| o | — | e, | að koma, jeg kem. |
| o | — | y, | sonur, synir. |
| ó | — | æ, | stór, stærri. |
| u | — | y, | fullur fyllri. |
| ú | — | ý, | mús, mýs. |

jó — ý, ljós, að lýsa.
ju — y, vjer bjuggum, jeg byggi.
jú — ý, að fljúga, jeg flýg.
au — ey, auga, að eygja.

Það hljóðvarp, sem u veldur, er að, a breytist í ö. t. d. *tala*, *tölur*. Ef **a** er í afleiðsluendingu eða beygingarendingu, breytist það optast nær með **u**-hljóðvarpi í **u**, t. d. *kallari*, *köllurum; kallaði kölluðum*, en hinsvegar *meðal*, *meðöl*, *hjerað*, *hjeröð*. **u** í karlkyns-endingunni **ur** veldur ekki hljóðvarpi, enda var sú ending upphaflega **r**, t. d. *maður* (áður *maðr*).

Stafir þeir, er valdið hafa hljóðvarpi, hafa víða fallið burt. Þannig hefur í mörgum orðum, þar sem **a** verður að **ö**, **u**, sem hljóðvarpinu olli, fallið aptan af, t. d. *föll* (af *fall*), *börn* (af *barn*). Að svo hefur verið sjest af eldri tungum, skyldum íslensku, svo sem frumnorrænu og gotnesku. Stundum kemur þetta **u** eða **v** fram í beygingunni, t. d. *á jörð* og *á jörðu* (rótin *jarð*), *ör*, fleirt. *örvar; mör*, fleirt. *mörvar*.

Ath. Stafir þeir, er hafa orðið fyrir hljóðvarpi, hafa stundum breyst í aðra stafi, er hafa líkt hljóð; þannig hefur t. d. ***einberni*** (af ***barn***) breyst í ***einbirni***, ***misseri*** (upphaflega ***missœri*** af ***ár***) í ***missiri***.

**Klofning** kallast sú hljóðbreyting, er **e** eða **i** breytist í **ja**, er með **u**-hljóðvarpi verður **jö**, t. d. *gefa*, *gjafir*, *gjöfum*; *girnast*, *gjarn*, *gjörnum; skildir skjalda*, *skjöldum*. **ja** (og **jö**) kallast klofningur úr **e** eða **i**.

**Hljóðbreikkun** kallast sú hljóðbreyting, er

grannur stafur hefur tekið upp í sig eptirfarandi samhljóðanda, og við það orðið breiður, t. d. *lá* (fyrir *lag*) af *liggja*, *þá* (fyrir *þag*) af *þiggja* sama sem *þáði*.

3. *Burtfall hljóðstafa*. Hljóðstafir falla opt burt í beygingum orða, sjerstaklega í afleiðsluendingum nafnorða og lýsingarorða, er enda á **l**, **n**, **r**, þegar fallendingin hefst á hljóðstaf, t. d. *ketill*, *katli*, *katlar*; *jökull*, *jöklar*; *nafar*, *nafrar*; *gamall*, *gamlir*; *heiðinn*, *heiðnir*. Grannir hljóðstafir falla opt burt á eptir breiðum, **a**, **o**, **u** á eptir **á**, **ó**, **ú**, t. d. *ánna*, *ám*, *ánum*; *klónna*, *klóm*, *klónum*; *frúnna*, *frúm*, *frúnum* (fyrir *áanna*, *áum*, *áunum*, *klóanna*, o. s. frv.). Í íslensku þykir og fegurst, að tveimur hljóðstöfum lendi sem sjaldnast saman.

## B. Samhljóðendur.

Samhljóðendurnir skiptast í 4 flokka, eptir því hvaða talfæri eru helst höfð, til að bera þá fram. Þeir eru:

1. *Gómstafir:* **k**, **g**, **j**, **h**.
2. *Tannstafir:* **t**, **d**, **ð**, **þ**, **s**, **z**, **l**, **n**, **r**,
3. *Varastafir:* **p**, **b**, **v**, **f**, **m**.
4. *Gómstafur* og *tannstafur:* **x**.

Af samhljóðendunum kallast **j** og **v** *hljóðstafabræður* eða *hálfhljóðar*, af því að þeir eru framkomnir af hljóðstöfum, **j** af **i** og **v** af **u**, enda valda þeir og sömu hljóðvörpum sem **i** og **u**.

1. *Framburður samhljóðenda*. Samhljóðendurnir eru venjulega bornir fram með stafrofshljóði sínu;

þó eru nokkrar undantekningar frá því, er nú skal greina.

**f** er borið fram sem **v** í enda atkvæðis, t. d. *hafa*, *líf*, *lifa*, frb. *hav-a*, *lív*, *liv-a*; í miðjum orðum á undan **ð**, **l**, **n** er **f** borið fram sem **b**, t. d. *höfði*, *afl*, *jafn*, frb. *höbði*, *abl*, *jabn*. **fn** á undan **d** og **t** er borið fram sem **m**, t. d. *nefndi*, *nefnt*, frb. *nemdi*, *nemt*.

**g** er borið fram sem **gj** og **k** sem **kj** á undan **e**, **i**, **í**, **y**, **ý**, **æ**, **ei**, **ey**, t. d. *gefa*, *girnast*, *gígja*, *gýgur* (tröllkona), *gæra*, *geit*, *geyma*; *kerra*, *kirkja*, *kíkir*, *kylfa*, *kýr*, *kænn*, *keimur*, *keyra*. Samkvæmt þessu skal ekki rita **j** á eptir **g** og **k**, ef á eptir fara ofangreindir hljóðstafir.

**g** er framborið hart í upphafi orða og á eptir samhljóðanda, t. d. *góður*, *söngur*, *borg*, en lint á eptir hljóðstaf, t. d. *dagur*, *nógur*, þó er **g** hart á eptir hljóðstaf, ef á eptir fara stafirnir **ð**, **l**, **n**, t. d. *sagði*, *sigla*, *logn*. Á eptir hljóðstaf er **gj** borið fram sem **j** og **gi** sem **ji**, t. d. *fleygja*, *bogi*, *degi*, *daginn*, frb. *fleija*, *boji*, *deiji*, *dajinn*.

**k** er borið fram sem **g** á undan **t** og **s**, t. d. *líkt*, *loksins*, frb. *lígt*, *logsins*.

**p** er borið fram sem **f** á undan **t** og **k**, t. d. *dýpt*, *dýpka*, frb. *díft*, *dífka*.

**ll** og **rl** er borið fram sem **ddl**, t. d. *kalla*, *jarl*, frb. *kaddla*, *jaddl*. **rn** er borið fram sem **ddn**, t. d. *barn* frb. *baddn*. **nn** er borið fram sem **ddn** á eptir breiðum hljóðstaf eða tvíhljóða, t. d. *spónn*, *beinn*, frb. *spóddn*, *beiddn*, en þó ekki, þegar **nn** er greinir, t. d. *ánna*, *klónna*.

2. *Tillíking* (assimilatio) kallast það, er einn samhljóðandi breytist í sama staf sem þann, er næst fer á undan eða næst fer á eptir. Tillíkingin kallast *framvirk*, þegar samhljóðandi breytist í sama staf sem þann, er á undan fer, því þá verkar fyrri stafurinn áfram, tillíkir sjer eptirfarandi staf, t. d. *steinn*, *hóll*, (fyrir *steinr*, *hólr)*, en *apturvirk* kallast tillíking, þegar samhljóðandi breytist í sama staf sem þann, er á eptir fer, því þá verkar aptari stafurinn til baka, tillíkir sjer undanfarandi staf, t. d. *breitt*, *hratt* (fyrir *breiðt*, *hraðt)*, af *breiður*, og *hraður*.

**Framvirk tillíking.** **r** hefur breyst í **n** og **l** í endingum eins atkvæðis orða með breiðum hljóðstaf eða tvíhljóða í stofninum, t. d. *hóll*, *steinn*, *áll*, *spónn* (fyrir *hólr*, *steinr*, *álr*, *spónr)*, ennfremur í endingum fleiri atkvæða orða, t. d. *þumall*, *ketill*, *jökull; aptann*, *himinn*, *jötunn* (fyrir *þumalr*, *ketilr*, o. s. frv.

**Apturvirk tillíking.** **ð** verður að **t**, *breitt* (fyrir *breiðt*), **ð** að **d**, *hræddi* (fyrir *hræðdi*), **dd** að **t**, *hrætt* (fyrir *hræddt*), **k** að **t**, *þótti* (fyrir *þókti*), **n** að **t**, *mitt* (fyrir *mint*).

3. *Burtfall samhljóðenda.* Samhljóðandi fellur opt burt úr orði, sumpart vegna hljóðfegurðar og sumpart vegna þess, að hann heyrist ekki í framburði.

Á eptir samhljóðanda fellur burt **d** og **ð**, ef **t** fer á eptir, t. d. *vont*, *hart* (fyrir *vondt*, *harðt*). Á eptir **t** með samhljóðanda á undan fellur burt hvorugkynsendingin **t**, *fast* af *fastur* (sbr. bls. 21).

Karlkynsendingin **r**, sem í nútíðarmáli er **ur**,

fjell burt, þegar rótin endaði á **l**, **n**, **r**, **s** með samhljóðanda á undan, t. d. *karl*, *fugl*, *vagn*, *hrafn*, *háls*, *hvass*, *lax* (fyrir *karlr*, *fuglr*, o. s. frv.). Í nútíðarmáli hefur einnig **r** og **s** fallið burt, þegar rótin endaði á **r** og **s** með hljóðstaf á undan, t. d. *hamar*, *fjötur*, *ís*, *þys*, í fornmálinu: *hamarr*, *fjöturr*, *íss* (fyrir ísr) *þyss* (fyrir þysr).

Ef rótin endaði á **ll** og **nn** fjell **r** ekki burt, og er nú orðið **ur**, t. d. *allur*, *fullur*, *sannur*, *munnur*.

Ath. Í orðunum *sonur* og *vinur* er opt sleppt endingunni **ur**, svo að nefnif. eint. verður bæði *sonur* og *son*, *vínur* og *vin*.

Stundum hafa samhljóðendur óglöggt hljóð, eða heyrast alls ekki, en þó skal skrifa þá, ef þeir eru í stofni orðsins eða heyranlegir í einhverjum myndum þess, t. d. *prestur*, *prests* (press), *barn*, *barns* (bass), *hrafn*, *hrafns* (hrafs), *margur*, *margt* (mart), *kemba*, *kembdi* (kemdi), *fleygja* (fleija), *fleygði*, *land*, *lands* (lans).

Þá er að minnast á **z** og **x**; **z** skoðast sem samsettur stafur af *ds*, *ðs* og *ts*, og skrifa því margir t. d. *vonzka*, *áherzla*, *beztur*, fyrir *vondska*, *áherðsla*, *betstur*, en aptur líta aðrir svo á, sem *d*, *ð*, og *t* falli í slíkum orðum burt á undan *s*, skrifa því *vonska*, *áhersla*, *bestur*, og telja þannig *z* alveg óþarfan staf í íslensku. Svo er gjört í þessari bók. Þá vilja sumir einnig fella burt *x*, og skrifa í þess stað *ks* eða *gs*, en ekki hefir það þó almennt fylgi. Helstu orð, er skrifast með *x*, eru: *ax* (á kornstöng), *buxur*, *fax*, *Faxi*, *jaxl*, *lax*, *sax*, *Saxland*, *sex*, *texti*, *uxi*,

*vax, vaxa, vöxtur, víxill, œxla, œxli, œxlun, öxi, öxl, Öxnadalur.*

*Upphafsstafi* skal rita:

1. Í upphafi máls og í upphafi setningar á eptir punkti, t. d. *Í fyrradag fór jeg að heiman. Í dag fer jeg heim.*

2. Í upphafi tilvitnunarsetningar á eptir kólon(:), t. d. Grettir mælti: „*Eigi mun skuturinn eptir liggja, ef allvel er róið fram í.*"

3. Í upphafi eiginnafna, t. d. *Árni, Ísland, Reykjavík, Íslendingar, Englendingar, Danir.* Samnöfn og lýsingarorð, sem myndast af eiginnöfnum, skrifast með litlum staf, t. d. *íslenskur, íslenska, enskur, enska, danskur, danska.*

---

## 16. Lestrarmerki. Skammstafanir.

### Lestrarmerki.

Lestrarmerki eða greiningarmerki eru höfð, til að greina sundur setningar, svo að hugsunin verði ljósari. Helstu lestrarmerki eru *komma* (,), *semikólon* (;), *punktur* (.), *kólon* (:), *spurningarmerki* (?) og *upphrópunarmerki* (!).

**komma** sýnir, að standa á lítið eitt við í lestrinum; hún er sett, 1. milli tveggja samsíða setninga, t. d. *jeg sje þig, og þú sjer mig; jeg þekki hann, en hann þekkir ekki mig,* 2. milli höfuðsetningar og

aukasetningar, t. d. *láttu mig vita, þegar húsbóndinn kemur*, 3. á undan tilvísunaraukasetningu, t. d. *sá, sem er ríkur, er ekki ávallt lánssamur*, 4. milli samsíða orða, þegar þau eru ekki samtengd með *og*, t. d. allt er komið heim, *ærnar, kýr og smalinn; þeir hoppuðu, skoppuðu, hlupu og stukku;* 5. á undan vissri tegund viðurlaga, t. d. *þá gengu tveir menn í höllina, miklir vexti og tígulegir.*

**Semikólon** gjörir nokkru meiri greinarmun á setningum en komma; við hann skal því standa lítið eitt meira við í lestrinum, t. d. *Garðar hjet maður; hann var Svavarsson, sænskur að ætt.*

**Punktur** er hafður, þegar málsgrein með öllum aukasetningum (samstæða) er á enda. Við punkt skal standa við í lestrinum, sem svarar einu andartaki. Punktur er einnig hafður, þegar orð eru skammstöfuð, t. d. *o. s. frv.* (og svo framvegis).

**Kólon** er settur fyrir framan upptalningar, t. d. *Ísland skiptist áður í fjögur ömt: Suðuramt, vesturamt, norðuramt* og *austuramt*, einnig þegar orð einhvers eru tilfærð orðrjett, t. d. *Gunnar vaknaði í skálanum og mælti: „Sárt ertu leikinn, Sámur fóstri.“*

**Spurningarmerki** er haft á eptir beinum spurningum, t. d. *hver er það? hvað heitir þú?*, en þar á móti ekki á eptir óbeinum spurningum, t. d. *jeg spurði hann, hvaðan hann væri.*

**Upphrópunarmerki** er haft á eptir upphrópunum, orðum, sem kallað er upp með, og í ávarpi, t. d. *Hæ! hæ! hamingjan hjálpi mér! háttvirti herra!*

Auk þessa lestrarmerkja eru nokkur fleiri merki höfð, er hjer skal getið.

**Tilvitnunarmerki** „ “ eru höfð á undan og eptir þeim orðum, sem tilfærð eru orðrjett, t. d. *„Fögur er hlíðin“, mælti Gunnar, „svo að mjer hefur aldrei jafnfögur sýnst.“*

**Svigar eða innilokunarmerki** ( ) eru sett utan um orð eða setningar, sem höfð eru til skýringar, en má þó hlaupa yfir, án þess að hugsunin raskist, t. d. *tíu ferðamenn (allir frá Englandi) komu hingað til lands.*

**Band eða samtengingarmerki** - er haft, til að tengja saman tvö atkvæði, er skifta þarf milli lína; stundum er einnig löngum samsettum orðum skipt þannig, þó í miðri línu sje, t. d. *Eyjafjarðar-sýsla, yfirrjettar-málaflutningsmaður.*

**Úrfellingarmerki** ' er haft, þegar staf er sleppt úr orði, og kemur það einatt fyrir í skáldskap, t. d. *„Titraði' jökull, æstust eldar, öskraði' djúpt í rótum lands.“*

## Helstu skammstafanir.

### Skammstafanir íslenskra orða.

| | | |
|---|---|---|
| a. n. | er lesið | að neðan. |
| a. o. | —„— | að ofan. |
| a. m. k. | —„— | að minnsta kosti. |
| a. *eða* aur. | —„— | aurar. |
| ath. *eða* aths. | —„— | athugasemd. |
| bls. | —„— | blaðsíða. |
| frb. | —„— | framber. |
| gr. | —„— | grein. |

| | | |
|---|---|---|
| hr. *eða* hra. | er lesið | herra. |
| höf. | —„— | höfundurinn. |
| kap. | —„— | kapítuli. |
| kl. | —„— | klukkan. |
| K. F. U. K. | —„— | Kristilegt fjelag ungra kvenna. |
| K. F. U. M. | —„— | Kristilegt fjelag ungra manna. |
| kr. | —„— | krónur. |
| l. | —„— | les *eða* lína. |
| m. fl. | —„— | með fleiru. |
| m. m. | —„— | með meira. |
| nefnil. *eða* nfl. | —„— | nefnilega. |
| o. fl. | —„— | og fleira. |
| o. m. fl. | —„— | og margt fleira. |
| o. s. frv., osf. | —„— | og svo framvegis. |
| o. þvl. | —„— | og því um líkt. |
| sb. *eða* sbr. | —„— | samanber. |
| s. s. | —„— | svo sem. |
| t. a. m. | —„— | til að mynda. |
| t. d. | —„— | til dæmis. |
| U. M. F. Í. | —„— | Ungmennafjelag Íslands. |
| þ. e. | —„— | það er. |
| þ. e. a. s. | —„— | það er að segja. |
| þ. á. | —„— | þessa árs. |
| þ. m. | —„— | þessa mánaðar. |

Lítil tala eða stjarna ofan til í línu er höfð til að benda á neðanmálsgrein.

Punktur aptan við tölu táknar opt, hvað í röðinni eitthvað sje, t. d. 4 er lesið *fjórir*, en 4. (4 með punkt á eptir) þýðir *fjórði* og *í fjórða lagi*, eptir sambandinu. *Í fyrsta lagi, í öðru lagi* o. s. frv. er einnig táknað með sviga á eptir tölunni, t. d. 1) þýðir *í fyrsta lagi*, 2) *í öðru lagi* o. s. frv.

Við tölur aftan við tilvitnanir í bækur biblíunnar merkir , (komma) kapítula, en . (punktur) vers, t. d. Mark. 16, 15. Markúsar guðspjall, sextándi kapítuli, fimtánda vers.

## Skammstafanir útlendra (latínskra) orða.

| | | |
|---|---|---|
| *c.* eða *ca.* | merkir | *circa*, hjer um bil. |
| *cfr.* | — | *confer*, samanber. |
| *etc.* | — | *et cetera*, og svo framvegis. |
| *sc.* | — | *scilicet*, nefnilega. |
| *nb.* | — | *nota bene*, gáðu að. |
| *nr.* eða *no.* | — | *numer* (*numero*), tala. |
| *do.* eða *dto.* | — | *ditto*, hinni sami, hið sama. |
| *pct.* eða *p. C.* | — | *pro cento*, af hundraði. |
| *p. a.* | — | *pro anno*, um árið. |
| *Co.* | — | *compagni*, verslunarfjelag. |

## Ýms merki.

| | | |
|---|---|---|
| ɔ: (skýringarmerki) | merkir | það er, það er að segja. |
| = (jafnaðarmerki) | — | sama sem. |
| § (greinarmerki) | — | grein (stuttur kafli í riti). |
| † (dauðamerki) | — | dáinn. |

& (fjelagsmerki) merkir *et*, og (í verzlunarmáli), t. d. Hansen & Jensen.

:|: (ítrekunarmerki) er sett fyrir aptan og framan parta af versi, sem ítrekast eiga í söng.

---

## Orðsafn,

### er sýnir beygingar og ritbátt nokkurra orða.

**Brúður.** Brúður brúðurin, brúði brúðina, brúði brúðinni, brúðar brúðarinnar; brúðir brúðirnar, brúðum brúðunum, brúða brúðanna.

Eins og *brúður* beygist *vættur* (andi, t. d. verndarandi).

**Fjöður.** Fjöður fjöðurin, fjöður fjöðrina, fjöður fjöðrinni, fjaðrar fjaðrarinnar; fjaðrir fjaðrirnar, fjöðrum fjöðrunum, fjaðra fjaðranna.

**Gimbur.** Gimbur gimburin, gimbur gimbrina, gimbur gimbrinni, gimbrar gimbrarinnar; gimbrar gimbrarnar, gimbrum gimbrunum, gimbra gimbranna.

**Gýgur,** kvk. (tröllkona, óvættur í konulíki). Gýgur, gýgurin, gýgi gýgina, gýgi gýginni, gýgjar gýjarinnar; gýgjar gýgjarnar, gýgjum gýgjunum, gýgja gýgjanna.

**Reyður,** kvk. (hvalsheiti, einnig eins konar *silungur*). Reyður reyðurin, reyði reyðina, reyði reyðinni, reyðar reyðarinnar; reyðar reyðarnar, reyðum reyðunum, reyða reyðanna.

Eins og *reyður* beygist *elfur* (fljót).

**Ás,** (guð eða goð Norðurlanda í fornöld), beyg-

ist eins og *dráttur*. Ás ásinn, ás ásinn, æsi æsinum, ásar ásarins; æsir æsirnir, æsi æsina og ásu ásuna, ásum ásunum, ása ásanna. *Ás* í húsi t. d. mænirás, löng og mjó hæð á landi, í spilum, er í eignarf. eint. *áss*, nefnif. fleirt. *ásar*.

a. ábristir, ábyrgð, afbrýði (hræðsla konu um mann sinn eða manns um konu sína), afkymi, áfir (strokkmjólk), áfrýja (skjóta máli til æðra dóms), afstyrmi (vesaldarskepna), áhyggja, akkeri. amboð (áhöld við útivinnu t. d. orf og hrífur), atgjörvi.

b. beygja, beygla, birgðir, birgur, blý, blygðun, blys, breyskur, breyta, breytni, brim, bryggja, Bryn- í mn. (t. d. Brynjólfur, Bryndís), brynja, brytja, býfluga, bygg, byggð, bylgja, býli, bylta, bylur, byr, byrgi (skýli, girðing), byrgja (loka, hylja), byrja, byrla, byrstur, býsn, bytta, bær (bæjar, bæir, bæjum).

d. daunn, deyja, dís (gyðja), -dís í kvn. (t. d. Vigdís), dreyri (blóð), drykkur, drynja, dýblissa (fangelsi), dýfa, dyggð, dylgjur, dylja, dyngja, dynja, dýpi, dyr, dýr, dýrð, dýrka, dys.

e. eiður, eimyrja (útbrunnar glæður), Eiríkur, ey, eyja, Ey- í mn. t. d. Eyjólfur, eyða, eykt (þrjár klukkustundir) eykur (akdýr), eymd, eyra. eyrir.

f. feginn, feikn, feikilega, feygja (láta fúna) feykja, firnindi, fíkinn, Finnbogi. físibelgur, fley (skip), fleyja, forynja (draugur, óvættur), Freyja, frýja (hugar. ögra), frýsa (blása, um hesta), fylgja, fylgsni, fyndinn, fyl (folald), fyrir, mig fýsir.

g. geimur, geisa (geisaði, hef geisað), gervi, getsakir, geyja (gelta), geyma, geysa (geysti, hef geyst), Geysir, girða (með garði), gleyma, gleypa, glymja, glys, gnýr, grey, gryfja, Grýla, Gyðja, Gyðingur, gylfi (konungur), gylla, gylta (svín), Gýmir (Ægir, sjávarguð), gyrða (með gjörð), gys.

h. hannyrðir, heiði, heiðríkur, hey, heyja (afla heys), heyja (háði, hef háð), heygja (gera haug yfir látinn mann), heykjast (guggna), heyra, híð (bæli), hilla (í skáp), hillingar, hlykkur, hlýr, hlýri, hneyksli, hnísa (hvaltegund), hnýfill, hnykill, hnykkur, hnýsast, hreyfa, hreysi, hryggð, hryggur (n. l.), hvalur, hvammur, hvarf, hvass, hvatur, hveiti, hvekkja, hvel (hjól), hve, hvelfing, hvellur, hver, hver (heit uppspretta), hverfa, hverfi, hvetja, hví (hversvegna), hviða (snöggur sársauki), hvikull, hvíla (rúm), hvilft, hvirfill, hvísla, hvítur, hvolf, hvoll (hóll), hvorki, hvönn, hýði, hylja, hylki, hylli, hýr, hýrna, hýsa, hyski, hýjungur.

i. illur, illhryssingur, ilmur, inndæll, innýfli, íbygginn, ískyggilegur.

j. jarl, jór (hestur, eignarf. jós, fleirt. jóar).

k. kaldavermsli, keyri, kirkja, kirna (strokkur, kolla að sjer dregin niður), kjöt, klyf (baggi), kvk. klykkja út, krydd, kúgildi, kvarta, kveða, kveina, kvíar, kviða (drápa, kvæði), kviðlingur, kviður, kvika, kvikna, kvikur (lifandi), kylja, kýli, kyn, kynda, kyrr, kyrkja (reyra að hálsi e-m), kyrtill, kyssa.

l. lamb-skota (ær, sem drepist hefur undan),

leggja (lagði, hef lagt), leiti (hæð), leifa (skilja eptir), leyfa (lofa, gefa leyfi til), leyti (að því leyti), lýður, Lýður, lydda, lyf, lygi, lykill, lykkja, lykt, lymska, lyndi, lyng, lýsa, lýsi, lyst, lýti.

m. mannýgur (manneygður), már (fugl), flt. mávar, megin (báðu megin), mey, meyr (laus í sjer), milla (eins konar lykkja), mjöl, mýfluga, mykja, mýkja, mylda (bera mold á), mylna (til að mala í), mylsna, mynd, mýri, myrkur, mysa.

n. neyða, neyta, -ný í kvn. (t. d. Guðný, Signý), nykur, nýr (nýjan, nýjum, nýir), nýra, nýta, nytsamur, nýtur.

o. Óðinn (þáguf. Óðni), óeirðir, ofn, óknyttir, orðstír.

p. peysa, prýða, pyngja, pyttur.

r. rammur (beiskur), ramur (að afli, sterkur), reifa (vefja barn reifum), reyfi (ullarreyfi), reykelsi, reykur, reyna, reyniviður, reynsla, reyr, reyra, reyta (t. d. illgresi, en reita til reiði), riklingur, rím, ryðja, rýja, ryk, rykkja, rýma (gefa rúm), rymja, rýna, rýr, rýtingur (daggarður).

s. safna, seiða (fremja galdur), seyða (mjólk), seytill, sía (t. d. mjólk), skeyta, skír (hreinn), skíra (barn), skríða (skreið, hef skriðið), skrýða (skrýddi, hef skrýtt), ský, skyggn, skylda, skyldur, skýli, skylmast (berjast), skyn (vit), skýr, skýr (skynugur, ljós), skýra, skyrta, slý, slyðra, slydduveður, slys, smeygja, smeykur, smjör, smyrill, smyrja, sneypa, snigill, sníkja, snyrtilegur, snýta, spýta (n., s.), stýfa, styggja, stykki, stynja, stýra, styrja (fiskur), styrjöld.

styrkur, stytta, syfja, sýki, sýkn, sykur, sylgja (hringja), sylla, sýna, synd, syngja, synja, sýsla, systir, sýta.

t. teygja, teyma, treyja, tryggur, Tryggvi, trylla, týna, tyrfa, týra (ljóstýra).

y. ybbinn (ónotalegur), yfir, yfrinn (kappnógur), ygla, ýla, ýlfra, ylgja (sjávarólgja), ylur, ýmislegur, ympra, ýmsir, -ynja (t. d. apynja ɔ: kvennapi, úlfynja ɔ: kvennúlfur), yndi, yrkja, ys, ýsa, ýskra, ýta, ýtar (menn).

þ. þeygi (ɔ: þó eigi, ekki), þeyr (hláka), þeysa, þeyta, þíða (frostleysa) þíður (frostlaus), þorskur, þreyja, þreyttur, þrýsta, þröskuldur, þybbinn (þrár), þýða (blíðka, útleggja), þýður (blíður), þykja, þykkja, þykkur, þylja, þyngd, þynna, þyrill, þyrlast, þyrma, þyrnir, þyrping, þyrslingur (smáþorskur), þyrstur, þys, þytur.

---

## Leiðrjettingar og viðaukar.

Bls. 4. l. 6 nafn nafn *les* nafns nafns.
— 23 - 18 er *í* ofaukið.
— 24 - 26 or *les* er.
— 38 - 28 af, *skrifaður les* af *skrifaður,*
— 66 - 19 ísland. *les* Ísland!
— 67 - 14 uudirtengisetningar *les* undirtengisetningar.
— 73 - 11 bundið mál *les* bundið mál eða.
— 89 - 11 tönnur *les* tennur.

Bls. 62 næst á eptir greininni: Gjörandinn er ávallt hafður o. s. frv., á að koma svolátandi grein:

Þolfall er opt haft, án þess að það sje þolandi, eða stjórnist af nokkru sjerstöku orði. Þannig eru höfð í þolfalli orð, sem tákna hreyfingu, fjarlægð, tímalengd, þunga o. þvl., t. d. hann hljóp *mílu* á örstuttum tíma, fjárhúsið stóð *nokkra faðma* frá bænum, hann sat inni *allan daginn,* krofið vó *rúma þrjá fjórðunga,* skipið kom *sjötta september.*

Til frekari skýringar á því, sem sagt er á bls. 73 um skothendingar og aðalhendingar, mætti tilfæra fleiri dæmi en gjört er, t. d. vísu Skarpheðins: Hjer verðr *þröng* á *þingi,* | *þóf* gengr langt úr *hófi,* | *síð* mun sætt með *þjóðum* | *sett;* leiðisk mjer *þetta.*

Þess skal ennfremur getið, að vísan „Vorið kemur", o. s. frv. bls. 83 l. 25. er með lítilli breytingu tekin úr Friðþjófssögu, þýðingu sjera M. Joch.

# Eptirmáli.

---

Fyrir nokkrum árum var uppseld mállýsing sú, er jeg gaf út 1891. Hún kemur því hjer út aptur, en í nokkuð breyttri mynd. Breytingin er helst sú, að í beygingu sterkra nafnorða er tekin upp ný flokkaskipting, og aðallega flokkað eptir fleirtölumyndun án tillits til kynferðis, og vona jeg, að þar með sje fengin nokkurn veginn eðlileg og handhæg flokkaskipting í beygingu tjeðra orða, að minnsta kosti hvað snertir nútíðarmál.

Að öðru leyti er breytingin einkum fólgin í því, að bætt er inn í ýmsum lesköflum, bæði aptan við hvern kafla til iðkunar í því, sem í kaflanum er kennt, og svo sjerstaklega allmiklu máli bætt við kaflann um Greiningu setninga, og verður bókin þannig að nokkru leyti lesbók jafnframt málfræðinni. Síðan eru tilgreind lestrarmerki og helstu skammstafanir, sem fyrir koma í íslenzkum bókum. Aptur er sleppt úr nokkrum smágreinum.

Jeg vil taka það fram, að bókin er aðallega ætluð nokkuð þroskuðum nemendum; þó hef jeg hugsað mjer, að hún gæti einnig orðið notuð við kennslu barna, þó ekki sjeu mjög þroskuð, en þá sje

hlaupið yfir hitt og þetta, og er það þá sett í athugasemdir eða prentað með smærra letri, en auðvitað verður jafnan komið undir áliti kennara, hvað honum sýnist heppilegast í því efni, sumpart eptir þroskastigi nemendanna og sumpart eptir því, hve mikinn tíma má ætla til námsins. Þó vil jeg geta þess, að kaflinn um samtengingar og það, sem skýrt er frá um bragliði og bragarhætti, er ekki fyrir mjög unga eða lítt þroskaða nemendur. Með tilliti til þessa er sumt í greiningunum sett í sviga, og er þá gjört ráð fyrir, að hlaupið sje yfir það, þegar minna er um þroskann.

Á hinn bóginn á það sjer opt og einatt stað, að námfúsir nemendur fara af sjálfu sjer að líta í („glugga í“) hitt og þetta, sem þeim er sagt, að þeir megi hlaupa yfir, og afla sjer þannig frekara fróðleiks, en beinlínis er heimtaður, og sakar þá ekki, að nokkuð meira sje að finna í bókinni, en ætlast er til að lært sje.

Að svo mæltu fel jeg kverið velvilja kennara, nemanda og annara, er kynnu að vilja hafa not af því.

*Höfundurinn.*



